Andlegar

# Hugvekjur

til

## Qvöld-lestra,

frá

Páskum til Hvítasunnu,

eptir

Christóph. Christ. Stúrm

eda hans móta,

samanteknar af


Markúsi Magnússyni,

Stiptprófasti, Prófasti í Kjalarness Þíngi og
Sóknapresti til Garda og Bessastada.


III. Bindi.




Beitistödum, 1818.

Prentad á kostnad Islands konúnglegu Uppfrædingar
Stiptunar, af Faktóri og Bókþrykkjara
G. J. Schagfjord.

# Til Lesarans.

Sú góda vidtaka, sem Almenníngur veitt hefir þeim tveimur ádur útkomnu Bindum af Stúrms Hugvekjum, til gudrækuis æfíngar maña vid qvøldlestra í heimahúsum, frá Veturnóttum til Páska, hefir áfýst mig, eptir Stúrm edur hans, Løndum mínum svo gédfellda, máta, ad vekja eptirþánká medbrædra um andleg efni, til ad framhalda þesshＡttar andlegum Hugvekjum til somu lestra, frá Páskum til Hvítasunnu, hvorra margur híngadtil saknad hefir.

Efni

Efni til allmargra þeirra er að sönn tekið af Stúrms verkum, en þarhjá til margra nýrra af mér sjálfkrafa añað valið til, en þó útlistað eptir hans anda og smeck. Þetta framhald birtist nú hér í þessara Hugvekja III. Bindi, í hvört seinasta Vetrar- og fyrsta Sumardags Hugvekjurnar eru úr I. Bindi híngað yfirum fluttar, sem vegna tímabilsins, ásamt nývidbættri Páska-Hugvekju, fundu hér haganlegra rúm, og verða þær því við nýtt upplag I. Bindis um skamt, úr þessu undanfelldar. Þessa mína velmeintu viðburði, fel eg nú minna kjæru Landsmanna góðvildarsømu meðtøku, sem hina fyrri.

M. Magnússon.

# I. Hugvekja.

Minni er eg, Drottinn! allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér, (1. Mós. b. 32.)

Til hvílíkra þacka hefir vor gódi Gud og Skapari unnid af oss fyrir þad, ad hann gaf oss skynsemdarfulla sálu, og hæfilega til ad þeckja hann! yfrid hátt erum vér, med þeirri gáfu, upphafdir af honum yfir svo margar skapadar verur, og þó vér megum meta oss miklu lítilfjørlegri enn mørg hans handaverk ønnur, einkum þegar vér samlíkjum oss vid þá yfrid veglegu og stóru himinkroppa, sem hans almáttuga hønd hefir útdreift um festíngar-himininn, verdum vér þó strax varir yfirburda vorra, ef vér ímyndum oss ad þessa himinkroppa vanti, sem þó er ólíklegt, skynsemdarfulla innbúa, sem dádst géti, bædi ad fegurd þeirra hnatta, og síns Skapara fullkomlegleikum. Sérhvør

 sképna

sképna í dýranna ríki vegsamar, hvør eptir hennar edli, Skapara sinn, en sá andi, sem hann hefir oss gjædda med, þeckir þó betur, og fær því dýrkad og vegsamad eñ verduglegar hans vísdóm, almætti og gjædsku. Þó ad sérhvørt blómstrid lýsi hans vísdómi og almætti, sem þad mindadi svo fagurlega, þeckir þad þó ecki sjálft þann, er gjørdi þad; vér barámóti þeckjum hann; vér vitum oss skapada eptir hans mind; hvørsu sæla megum vér þá ecki álíta oss, vid þeckingu þessa mikla Guds, hvørs hátign og veldi himin og jørd auglýsa, og þó má oss finnast þad enn miklu meira verdt, ad þessi mikli Gud hefir unnt oss ad þeckja sig, sem vorn ástríkasta og umhyggjusamasta Fødur, sem elskar oss miklu innilegar enn nockurr dygdugasti og ástríkasti fadir vor á medal fær elskad børn sín! ad hans velgjørníngar vid oss eru óteljandi, sem ecki einúngis uppfylla allar vorar þarfir og naudsynjar, heldur einnig allar vorar leyfilegar óskir, á því þreifum vér dags daglega; en þó yfirgnæfir allt, sem vér vitum ad Gud hefir vel vid oss gjørt: ad hann hefir gésid oss sinn eingétiñ og elskulegañ Son.

Sá

Sá kjærleiki Guds yfirgengur allt hvad vor sála færímindad sér. O! ad vér fengjum verduglega prísad þeßi Guds kjærleiks undur, ædri øllum skilníngi og allri náttúrlegri þeckíngu. Hvør skynsemi og eptirþánka gjædd sála, sem veit sig ad-njótandi þvílíkra velgjørnínga, og sig svo hátt setta, af kjærleika ans Gudi, á Skøpunarverksins trøppu, og nýtur svo margra røksemda Fødurelsku hans; hvør, segi eg, vildi ecki elska þvílíkann Fødur, þvílíkann velgjørara, sem er eintómur kjærleiki, og hvørs gjørvoll rádstafan og umhyggja fyrir oß, ber vitni um elsku þeß ástúdlegasta Fødurs? Hvørsu megum vér þá ecki skélfast kaldsinni vort og deyfd vid þvílíkann kjærleika, á hvørjum vér þreifa megum sífeldt bædi úngir og gamlir, og sem þó hrærir svo lítid vort kalda hjarta? Uppá svo márgvíslegañ hátt hefir Gud sýnt og sannfært oß um þad: ad vor sáluhjálplega og heilladrjúgasta skylda væri sú: ad elska hann yfir alla hlutt fram, hann, sem elskadi oß svo heitt ad fyrra bragdi; en æ! hvørsu fáir af oß gæta rétt þeßarar skyldu? hvørsu fáir kañast, med verdugu þacklæti, vid Skap-

 ara

ara síns óþreytanlegu velgjørnínga ! Látrú þér samt ecki leidast, besti Fadir! ad gjøra oß óþacklátum sképnum þínum gott; þín óþreytanlega nád, sem enn á þeßum degi verid hefir vakandi yfir oß, styrkir trú vora þar um: ad med enda þeßa dags muni þó þinn kjærleiki til vor ecki enda taka. O! vér játum þad eins medal þinna nádarverkana, ad vér ennþá drøgum vorn anda, ennþá fáum oß hrært og lifum, og vogum því enn framvegis ad vænta af þinni sømu trúføstu nád, ad bera viljir vorkunsemi med veikleika vorum; já, alls þeß, sem útkrefst til eblíngar vorrar sønnu luckn, væntum vér med efalausri fullvißu um þína Fødurgædsku; og allteins þó þínu alvísa rádi þócknast mætti ad láta oss nockrar mótlætíngar til handa bera, viljum vér og telja þær med þínum velgjørníngum, og audmjúkir kyßa þá kjæru Fødurhønd, sem oß til besta typtar oß. Þeirrar nádar bidjum vér þig, trúfasti Fadir! ad þú viljir kénna oß ad þeckja og þacka þinn kjærleika í øllu því, sem þú lætur vid oß framkoma, svo vér læra mættum ad elska þig af gjørvøllu hjarta, því framar, sem vér fáum betur þinn kjærleika þecktan. 2. Hug-

# 2. Hugvekja.

Hvorr, sem situr undir skjóli hins Hæsta, og undir skugga hins Almáttuga, sá segir til Drottins: mitt traust og mitt slot, minn Guð á hvorn eg vona, (Ps. 91.)

Værum vér ecki med efalausri full-vissu sannfærdir um þad, ad Gud er til, og ad þessi Gud er vor Skapari, og elskurlkur Fadir, mættum vér med ángist og qvída sjá sérhvorn dag vors lífs renna upp, og leggjast med errþln-un í sæng vora ad qvöldi. Vér sæum oss þá búnar mædur og mótlætingar, en vissum oss þó einkis léttirs í þeim ad leita; vér sænm fyrir oss liggja sár sorga tilfelli, en vissum þá hvorgi ad fá þeirra bót. Veikleika vorn og vanmátt þecktum vér, en hefdum þá hvergi styrks ad vænta. Fyrir daudanum hlytum vér qvídandi vera hvort augnablik, því þá hefdum vér enga von betra lífs. Já, ef ad vér vissum ecki ad Gud er til, og ad þessi Gud er vor ástríkur Fadir, þá mætti það megn olucka heita, ad vera fæddur, strass ad lifa og skélfing ad deya. En lofadur veri Gud! ad vér vitum

hann vera til; vér vitum á hvørn vér trúum, og á hvørn vér voga megum ad setja vort trúnadar traust; ad vér þeckjum þennann vorn Gud, og þvílíkann Gud ad vera, þad er vor lucka í lífi og dauda, og þetta er þad, sem gèfur oß þad øruggasta trúnadar traust og hugarmód á þeßari stundu. Þeßi vor Gud, hann er mikill, oendanleg er hans makt til ad hjálpa, vernda og vardveita; ótakmørkud er hans makt til ad umbuna og ad straffa; hvørsu huggunarrík má oß ecki vera þeßi fullvißa, þegar vér hugleidum vanmátt vorn, og vorra medbrædra kraptaleysi oß til hjálpar, þegar oß áliggur, en sjáum þarámót vondsku ógudlegra manna leggja tálsnørur í veginn fyrir oß; en í hvørsu léttu rúmi má oß þá ecki allt þetta liggja, því hvad fær oß vantad, hvad má oß granda, þegar almáttugur Gud stydur oß, styrkir og verndar oß? þó vort líf sé samantvinnad af mørgum undarlegum og óskiljanlegum tilfellum, fulltreystum vér þó samt, ad Stjórnari vors lífs leidi allt hvad oß mætir til farsælustu afdrifa. Þó ad vér reyna mættum sláttskap og undirferli, svik og pretti af vondum mønnum,

um, nægir oß sú sannfæríng, ad Gud er sañordur og óumbreytanlega trúfastur; ad hans fyrirheit standa stødug, og ad hans ord bregdest aldrei; þo heimurinn vilji ecki líta vid oß, vorir bestu vinir snúi vid oß bakinu, er oß þad samt fullnóg huggan ad Gud elskar oß, ad hann er oß til handa einskjær nád, miskun og kjærleiki; þvi skyldum vér þá ecki álíta hann vora ædstu og einustu huggun og gledi, ecki setja á hann vort gjørvalla trúnadar-traust? já, Drottiñ vor Gud! vor unadsemd sé ad trúa á þig, vor ástundan ad elska þig og óttast, og vor stærsta lucka ad lifa og deya þér. Med þvílíku hugarfari verda vors Guds mikilu eginnlegleikar oß óuppausanleg huggunar og gledi uppspretta, en hinum ógudlegu skélfilegir. Þegar gjervøll verøldin titrar fyrir þínu almætti, mikli Gud! gled eg mig af því, ad þú ert minn styrkur; þegar sá ógudlegi skélfist þína allstadar nálægd og alvitsku, þá gledur þad mig, ad þú, Gud! ert mér nálægur, sjer og þeckir alla mína naud, veitst hvørs eg vidþarf og á hvørju mér liggur; þegar þeim ógudlega liggur vid örvýlnun af otta og quída,

þegar hann minnist þíns hegnanda réttlætis, gled eg mig vid þad sama réttlæti, sem mér er ordid svo huggunarríkt vegna endurlausnar míns Jesú. Þessar dýrmætu huggarnir munu útbreida blessun og nád yfir vort gjorvalla líf, í øllum þess margfoldu biltíngum og tilfellum, géfa oss sinnis rósemi, ánægju og glada von. O vor godi Gud! vyrdstú ad efla og styrkja þessa von í vorum hjørtum med þínum góda Anda; æ! láttú oss eilíflega vona á þína nád; vyrdstú einkum ad styrkja von og trú hjá oss, þegar ad því kémur, ad vér skulum skilja vid þetta stundlega; géfi oss þá þinn Andi gledilega fullvissu um, ad vér séum þín born, hvorjum fyribúin sé eilíf vistarvera hjá þér, hvar vér læra fáum betur ad þeckja þig og elska eilíflega.

## 3. Hugvekja.

Lærid af mér, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur, (Matth. 11.)

Þegar sá réttkristni hugleidir, hvorsu annt vorum guddómlega trúar-

bragda

bragda Stiptara var um þad, ad fá iñrættañ sannañ kjærleika manna á milli hér á jørdu, má honum nærri hjarta gánga, ad verda þeß daglega var, hvorsu kjærleiksleysi almennt tekur yfirhønd í heiminum. Svo hann fái sér fostum haldid vid Jesú kjærleiks bodord, ætti honum um eckert ad vera framar hugarhaldid og eckert ánægjusamara, enn ad minnast opt á og vyrda fyrir sér þá miklu mannelsku, sem Jesús auglýsti, á medan hann umgéckst hér á jordu; og um hvad ætti oß, sem berum kristid nafn, og lýsa egum med gjorvollu framferdi voru, ad vér séum Krists sannir lærisveinar, annara vera, enn ad læra af hans dæmi, sem oß er settur til eptirbreytnis, ad umgángast brædur vora med líkum kjærleika og Jesús? Sjáum hverju hans lærdómar, hans gjorvallа framferdi, hans umgengni, hans pína og daudi, var allt eintómur kjærleiki, og þó ad vér hefdum ecki þau rok mannelsku hans, ad hann offradi sínu lífi og lífs-luckn fyrir veralldarinnar velferd, mætti þó hans lærdómur sannfæra oß um hans kjærleiksfulla hjartalag, þad eginlega og verulega iñihald allra hans

boda, allra hans kénnínga og daglega tals, eru alvarleguſtu uppbvatníngar til kjærleika, og allt oß fagurt eptirdæmi kjærleikans. O! hvørſu mildilega taladi hann til hinna ſyndugu! hvørſu vorkunarſamlega til hinna veſælu! hvørſu áſtúdlegar vóru hans áminníngar! hvørſu kroptugar og hugbreyſtandi hans hugganir! en, þó hans tal og kénníngar væru yndælar og hrærandi, vóru þó enn addáanlegri hans atbafnir, ſem gjørvallar, hér á jørdunni, vóru miſkunarríkir velgjørníngar; engínn ſtadur var ſvo fjærlægur, ad hann ecki flýtti ſér þángad, þegar á hjálp hans lá; engin manneſkja ſvo lítilmótleg, ad hann ecki rétti henni ſína hjálpar-hønd; engin eymd ſvo lítil, ad hann ecki hrærdiſt til medaumkunar; enginn ørdugleiki, engin mæda, engin þjáníng var ſvo ſtór, ad hann ecki legdi hana á ſig, til þeß ad ebla mannanña luckn og heillir med einhvørju móti. O! hvørſu áſtúdlegt mun ecki hans andlit hafa verid, þegar hann tók børnin ſér í fáng, kyſſti og bleſſadi þau! Hvørr fær útmálad þá kjærleiksfullu þolinmædi, med hvørri hann ſá í gégnum fíngur vid ſinna vina breyſkleika!

leika! þá vidqvæmu medlídun, er hañ bar med sinna brædra naud! en hvørr undrast þá minna yfir þeirri hógværd, sem hann audsýndi óvinum sínum, inidt í því þeir offóktu hann eda misþyrmdu honum. En lotníng og undran ega þó ecki ad vera þær einustu verkanir, sem Jesú dygdadæmi má vekja hjá oß; vér egum med því ad láta oß uppvhetja til ad feta í Jesú fótspor, ad líkjast honum í voru gjørvallo framferdi. Hvørsu mørg tækifæri géfast oß ecki til þeß í umgengni vid brædur vora, sem allir hafa rétt til ad krefja vorn kjærleika? Vor mikilvægasta skylda er því: ad sýna í allri vorri umgengni, ad vér séum lærisveinar þeß himneska Mañelskara, hvørs nafn vér berum; á oß egum vér ad láta þad augljóslega sjá, hvørsu Jesú lærdómur orkar ad mynda sanna mañelskara. En þú, gódi Jesú! vyrdstú ad uppfylla vor hjørtu sañri mannelsku! vyrdstú ad gjøra oß vidqvæma vid brædra vorra naud, og styrkja oß til ad létta undir eymdir þeirra; hjálpadú oß til ætíd ad gjøra gott, þegar tækifæri þar til géfast, án þeß ad þreytast vegna heimsins óþacklætis. Med þvílíkum þenk-

þenkíngarhætti fáum vér sjálfir gjört oß lífið yndælt; vér ávinnum oß ecki einúngis þar með það æru-nafn, að heita mannelskarar, heldur, hvað óendanlega er meira verdt, að kallast þínir vinir, o Jesú! og vera vißir um þína kjærleika, en þegar vér hofum þessa vissu, þá er og verdur vor lucka ómetanleg, bædi í þessu og hinu komanda lífi.

# 4. Hugvekja.

Það hefi eg fundið, að allt hvað Gud gjörir manneskjunni, er vel gjört. (Pred. 7.)

Þessa játníngu má vissulega hvørr einn af oß sérílagi gjøra um Guds vegleidslu þá, sem hann sjálfur vard var við í gégnum þetta líf; hvað allir himnar fortelja, hvad gjørvøll veröldin sannar, megum vér og játa, í tilliti til vors egin lífs; Gud hefir allt gjört vel við oß! hvørsu blygdunarfullur má nú að líkindum margur af oß verda, þegar vér samanberum játníngu þessa við margar ymqvartanir, vorar fyrrmeir, yfir stjórnun Guds oß til handa; þegar Drottinn audmýkti oß, þegar hans

vísa ráð sá það nytsamlegt, að leiða oss í gégnum undarlega vegu, og að hylja um stund sitt andlit fyrir oss, hvörsu þúngsinna og huglausir urðum vér þá ecki? hvörsu torveldt var oss þá að ná sañfæríngu um það: að allt hvað Guð gjørdi, væri vel gjørt? en nú eptirá, þegar Guðs huldu vegir eru orðnir oss augljósari; nú, þá hrygðardagarnir eru á enda, og Guð hefir á ný huggað og gladt oss, nú megum vér með jafnmikilli blygðun og sannfæríngu játa: að Drottiñ hafi allt gjørt vel oss til handa; þeßi egin reynsla vors liðna lífs, kann að gjøra oss vitra á komandi tímunum. Það er ecki ólíklegt, að oss beri enn þá, á meðan vér lifum, tilfelli þau að höndum, er veki, eins og áður, efasemd í vorri sálu, um Guðs vísu og náðugu stjórnun. Það kynni að mæta oss, hvar um vér þenktum í hjarta voru eins og áður, en hvað þá? gét eg nú og sagt um þeßi tilfelli, sem mér mæta: að Guð gjøri allt vel? enn þá býðst oss tækifærið til að sýna vora stöðugu trú og vort óbifanlega trúnaðar-traust á Gudi; þá á vors Guðs undrunarverða vegleiðsla á fyrri døgunum, að minna

oss

oss að hans vísdóm og náð, og það megum vér vissulega játa, midt undir þeim mædusömustu mótlætingum, að allteins med því, að senda oss þær, gjörir hann vel við oss. Omissanlegt er það fyrir sinnis rósemi vora, að þetta trúnadar-traust til Guds nádar, sem allt gjörir vel, örfist og vaxi hjá oss stöfeldlega því betur og því óblugar, sem vér sannfærumst þar um framar, að gjörvallur tilgángur Guds við oss sé gódur og sáluhjálplegur; því rólegra verdur vort hjarta, og því luckulegri og ánægdari vorir dagar hér á jördunni; virdstú því, gódi Fadir! sem vilt unna oss þessarar sennu lucku, að styrkja oss ætíð betur og betur í þessu trúnadar-trausti, en jafnframt að dempa það efasemð æ meir og meir um gjædsku þinnar stjórnunar, sem svo opt ollir hjarta voru óróseimi; upplýstú vor augu, svo að vér sjáum þinnar nádar dásemdarverk á oss, og géfdú oss þacklátt hjarta, svo vér gladir prísum þína náð, sem þú lætur oss í tje dags daglega; láttú það verda vora kjærustu og dýrmætustu skyldu, að géfa þér í öllu dýrdina, og hjálpa þú oss til að útbreida hana um

heim-

heiminn; en einkum og allraheizt, géf þú oss nád til ad dýrka þig med voru líferni, og ad votta med rádvøndu framferdi þann kjærleika, sem vér erum þér, vor Gud! skyldugir um. Þinni nádugu vegleidslu felum vér oss enn á ný, á vald; allt hvad þín Fødur forsjón lætur oss mæta, skal vera oss kjærkomid, á medan þú ecki lætur þína blessun og adstod frá oss víkja. Vér viljum leitast vid af øllu megni, ad æfa oss í þeirri ørdugu skyldu, allteins þá ad vona á þig, þegar þú hylur fyrir oss þitt andlit; allteins þá ad vidurkénna gædsku þinnar stjórnunar, þegar hún finnst oss ógédfeld; því æfdari sem vér verdum hér í, því luckusælla verdur vort líf.

## 5. Hugvekja.

Til þín var mér varpad frá módurlífi, þú varst minn Gud frá lífi minnar módur.

Enginn, sem þeckir Gud, og trúir því, ad hans forsjón stjórni øllum hlutum, mun fá því neitad, ad hann dags daglega njóti velgjørnínga hans; en

en munu þar þeir allir, sem njóta þeſſara Guds velgjørnínga, vídurkénna þat med þacklætu hjarta? vyrdaſt oſs þeir ecki gleymdir hjá fleirſtum, jafnódum og meñ verda þeirra adnjótandi? hvørt munu hinir oſs þar í ferſkara minni, sem vér þægum vid inngæng. vorn í heiminn, vid byrjun lífs vors, þegar Guds velgjørníngar þó létu ſig einna æþreifanlegaſt í ljóſi. Þeſſir velgjørníngar Guds, vid oſs í kríngumſtædum fædíngar vorrar og æ barnsaldrinum, ættu ad vekja vorn eptirþænka æ sérhvørjum degi vors lífs; æ þæ ætti oſs ad minna sérhvørt úngt ómælga barn, sem oſs kémur fyrir ſjónir, þar vér ſjáum megum hvørſu hjálparþurfandi úngbarnid er, því miklu heldur, sem þeir eru til, er ad lokunum munu óſka sér, aldrei ad hafa verid fæddir, en formæla ſínum fædíngardegi, hvørra veſæla æſtand vekja ætti hjá oſs því heitara þacklæti til Guds, fyrir vora betri fædíngar heill. En, erum vér ecki of drambſamir og of ógætnir, til ad minnaſt þeſſara velgjørnínga, og prîſa Gud fyrir þæ? Engu gleymum vér fljótara enn þegnum velgjørníngum, ecki ſíſt vors

góda

góda Guds; varla minnumst vér þeirrar nádar, sem hañ audsýndi oss í gjær; hvörsu miklu sídur mun oss þá reka minni til hinna, sem vér notid hofum fyrir 20 árum, eda máské lanngu ádur. Engu ad sídur er þad þó einhvor mikilvægasta skylda vor, ad láta vorn huga hvarfla til barndóms ára vorra, og á þeim ad finna ótal merki Guds forsjónar, og vidurkénna hana med audmýkt og þacklæti; á hvörsu marga velgjörnínga Guds munu ecki þessi ár mega minna oss, ef vér géfum náqvæmar gætur ad, hvad oss á þeim mætt hefir! til fædíngar tíma vors reñum vér þá fyrst augunum: Ecki var þad hendíngu eiñi ad þacka, ad vér sáum fyrst dagsins ljós á þeim tíma þad skédi, og ecki á ødrum; hvørr af oss má ecki meta þad yfrid stóra lucku, ad vér ecki fæddumst á þeim tímum, þegar blindni og hjátrú drottnudu, nærfelldt yfir gjørvallañ heiminn, heldur á þeim, þegar forsjón Guds lét skynseminnar og opinberíngarinnar ljós tendrad lýsa um vídar heimsins álfur? Ecki sídur høfum vér orsøk til ad íhuga og ad þacka Gudi þañ fæd-

fugarstad vér hlutum. Hvørsu ólucku-
lega mættum vér ecki halda oss, hefd-
um vér fæddir verid á medal heidinna
þjóda eda villumanna? en ad Gud hefir
látid ofs fædast á þessu landi, á medal
sidsamra manna, midt í kristninni, hvar
allt hefir sameinad sig til nota og ánægju
fyrir oss; hvílíka lucku megum vér ecki
meta þad! og enn framar: þegar vér
hugleidum, hvørsu undrunarlega Gud
leiddi oss í gégnum vor barndóms-ár,
hvørsu vidqvæmann kjærleika hañ vakti
og vidhéldt til vor, hjá foreldrum vor-
um og þeim, sem oss fóstrudu, sem ólu
ønn fyrir øllu því, er vér vidþurftum.
En, hvørsu megum vér þá dádst ad vard-
veitslu Guds, sem verndadi oß, á þess-
um ómálga-árum, frá svo margfoldum
háskasemdum, sem voru únga lífi hefdi
mátt granda, og héldt svo trúlega í hønd
vors barndóms, ad vér ecki steyttum fót
vorn á steini? Já, enn framar: gladt
oss med mørgum saklausum úngdóms
lystisemdum! Hvørsu mættum vér nú
ecki álítast eptirþánkalausir, já, straffs-
verdir nú, þegar vér erum til vits og ára
komnir, og høfum reynt þessa trúføstu

veg-

vegleidslu vors Guds, og hvorsu hans forsjón hefir foðurlega tekid sér af hoqum vorrar barnæsku? já, hvorsu stroffs-verdir, segi eg, ef ad vér hér eptir bera skyldum miñstu efasemd framvegis um vísdóm og gædsku hans vega? Nei! reynsla vorra fyrri daga skal hér vor þéna oss til uppvakníngar, til ad setja á komandi tímunum, oruggt trúnadar-traust til hans almáttugu verndar. J øllum þeim tilfellum lífsins, sem oss mæta, viljum vér renna vorum huga aptur til vorra úngdóms-ára; og þegar mæda og mótlætíngar bera oss ad høndum, skal endurminníng Guds fødurlegu forsjónar og handleidslu, verndar og varatektar á æsku-árum vorum, styrkja hjá oss þad trúnadar-traust: ad sá Gud, sem reyndist oss svo trúfastur Fadir þegar frá módurlífi, munt ecki yfirgéfa oss á vorum eldri árum; hafi hann þá svo ástúdlega sorgad fyrir oss, þegar vér vórum svo veikir og hjálpar-þurfandi, mun hañ vissulega eñ fyrir oß sorga, þad eptir er. J þessari von høldum ver áfram vors lífs vedhlaupi, med þeirri í qvøld endurnýudu bæn til þín,

vor gódi Fadir! ad þú viljir framvegis láta þína náð, og blessun yfir oss hvíla; því til þín var oss varpad frá módurlífi, þú varst vor Gud frá módurlífi, þú munt og vera vor Gud og vor sáluhjálp bædi í tíma og eilífd.

## 6. Hugvekja.

Af Guds náð er eg þad eg er. (1 Cor. 15.)

Því lengur sem vér lifum, því betur sannfærumst vér um vanmegni vort; vér sjáum oss tídum af háskasemdum umkríngda, sem vér med øllum vorum kroptum og adburdum ecki fáum afstýrt; vér keppumst af øllu megni eptir ad ná því, sem vér meintum ebla mundi luckn vora, en vanmáttur vor gjørdi oss þad ómøgulegt; dags daglega komumst vér ad raun um þad hvørsu lítid mannskepnan má sér, hvad lítid hún má stóla uppá sjálfa sig. Þegar oss gengur allt ad óskum og eckert blæs á móti, hugsum vér oss óhulta fyrir allskonar mædu og motlætíngum; vér meinum oss þá fría fyrir øllum þreyngíngum, og gledjum oss vid þad, ad vor lucka muni eins var-

anleg, og vorar luckuóſkir; en midt í því vér þannig gledjum oſs vid lucku vora, ſem vér álitum óraſkanlega, er ógjæfan fyrir dyrunum, og vér, ſem heimſkulega ſtóludum uppá luckunnar ſtøduglyndi, erum, fyrr eñ vér afviſſum, nidurhrapadir í eymdaña afgruñ, hvadan vér, med allri vorri orku, fengjum oß engannveginn bjargad; ſvo lítils erum vér megnandi af ſjálfs dádum, med øllum vorum atburdum og ómqki, til ad ſvipta oſs eymdum og ólucku, ſem oſs ſvo audveldlega mæta kuña, en þó rádum vér enn ſídur fyrir því, ad efla vora lucku og gjøra vora velferd ſtøduga; ótelјanlega margar hindranir mæta, ſem gjøra oſs ørdugt, já, ómøgulegt, ad ná því takmarki, ſem vér ſtefnum til, því þúſund tilfelli gjøra ad engu vora ákøfuſtu kappsmuni. Þetta reynum vér nú daglega, og þó erum vér ſvo einfaldir, ad hugſa ad ná med eginn kroptum vorum þeirri heill, ſem oſs lángar ſvo mjøg eptir. Stundum vonum vér, med ſkarpſkygni vorri, ad fá útgrundad Forſjónarinnar huldu vegu, ad ſjá lángt fram í økomnar tídir, og finna hentug

medöl til luckn vorrar; stundum ætlum vér med mætti vorum, metordum og ríkdómi, ad gjøra vora jardnesku lucku varanlega; stundum stólum vér uppá vina vorra adstod og hjálp oss til luckubóta; en loksins, þegar vér høfdum allt þad reynt, sem vér hugdum ad fengi eblt og styrkt lucku vora, komumst vér ad raun um: ad allt vort skarpsinni, allur vor máttur, allt vort ríkidæmi, allir vorir vina atburdir, vóru til forgéfins; eckert af þessu megnadi ad gjøra oss luckasæla, og hvad tokum vér þá til bragds? vér veinum skjótt og kløgum yfir vorum ó- blídu luckukjørum, í þess stad, ad vér ættum ad klaga yfir sjálfum oss, og gjøra oss brixlyrdi fyrir heimsku vora og van- trú. O! látum oss því ecki lengur qvel- ja oss sjálfa med þvílíkri fávíslegri á- hyggju og órósemi, heldur taka fyrir oss þann ásetníng, hér eptir ad slá frá oss øllum harmatølum, en setja þarámóti øruggt trúnadar-traust til vors góda Guds, og vænta af honum einum allr- ar lucku og blessunar! sú von mun oss aldrei á tálar draga; í øllum kríngum- stædum, í øllum umbiltíngum munum

vér

vér þad hjá honum finna, sem vér ádur forgéfins leitad høfdum eptir, bædi hjá sjálfum ofs og gjørvallri Verolldinni. Hédanaf skulum vér því fela ofs þér á vald, vor alvísi, nádugi Skapari! því framar, sem vér reynum vorn vanmátt, því trúarøruggari viljum vér reida ofs uppá þitt almætti; því optar vér verdum varir vid heimsins kjærleiksleysi, því huggunarríkari skal ofs verda þín nád; því betur sem vér lærum ad þeckja vorrar skynsemis veikleika, því øruggari viljum vér treysta þínum óendanlega vísdómi. Hvílíka fridun, hvílíka rósemi munum vér þá ecki finna midt í øllum luckunnar umbiltíngum? hvørsu ánægjuríka huggun munum vér þá ecki smacka í velgengni, og hugsvølun í mótlæti? med þacklátu hrærdu hjarta munum vér þá prísa þitt nafn, og vídfrægja þína velgjørnínga, Drottinn vor Gud! vort trúnadartraust og vor styrkleiki!

# 7. Hugvekja.

Kristur hefir ofs eptirdæmi géfid til þess, vér skyldum feta í hans fótspor. (1 Pét. 2.)

Á sérhvørjum degi, sem vér lifum, ber ofs vandlega ad yfirvega, hvørsu

margfold sú skylda er, sem oss liggur á herdum, medan vér lifum á jördunni; þessa fáum vér aldrei betur gjætt, enn ef vér hugleidum, ad vér erum kristnir, og berum hans nafn, hvörs dæmi á ad vera vor regla til eptirbreytingar, hvörri vér kappkosta egum ad fylgja í öllum lífsins tilfellum, og í sérhvörju lífs ástandi og kríngumstædum. Þegar vér gætum þess, hvörsu Jesús, sem vér höfum þjónustu svarid, er upphafinn yfir alla daudlega, ad fyrir honum skulu sig beygja öll kné á himni og jördu, má þad ecki litid auka ástundun vora og kappsmuni eptir ad fullnægja skyldu vorri, hvörnig sem á-standa kynni, og hvörsu ordugt sem oss mætti falla þad. Hugleidtú því, madur! ad þú ert kristinn, og láttú þér þad, í daglegum fyritækjum, aldrei úr minni lída. Engin athöfn þín, enginn lífernishátur fái nockurntíma útrýmt úr huga þínum þessari umþenkíngu Yfirvega þú þá lucku, hvörrar þú nýtur, ad þjóna þeim Herra, sem bædi í þessu og hinu komanda lífi, vill umbuna þér sérhvad, sem þú gjörir af elsku til hans og hlýdni vid hans bodord, og þad med því yfir-

gnæf-

gnæfanlegri verdlaunum, sem hlýdni þín kostar þig ordugri afneitun þíns eginn vilja. Hugleidtú hvad Jesús hefir gjort fyrir þig til þess, ad þú yrdir hluttakandi þeirrar æru, ad vera hans elskulegur þjón. Láttú þær píslir, sem Jesús leid til ad gjora þig hólpinn, þér aldrei úr minni lída, aldrei þá trú og kjærleika réna, med hverjum þú átt ad elska hann. Þú ert kristinn, þú átt því ad breyta eptir Lausnara þínum í því, ad gjora allt hvad þér er mogulegt, til lucku og heilla medbrædra þinna, eins og hann, sem offradi sér sjálfum þeim til góds; vertú því ástundunarsamur og ydinn í þínu kalli, en hugleidtú ætíd, ad øll lucka og blessan ervidis þíns, kémur frá honum, sem gaf þér lyst og krapta til ervidis. Þú ert kristinn, hugsadú til þess, þegar syndin ætlar ad locka þig; þegar skíngjædi nockur ætla ad ginna þína sansa og tilhnegíngar til ad brjóta Guds bodord, minnstú þá þess, hvørsu dýrt Jesús hefir þig keyptañ, og hvílík skylda á þér hvílir, ad lifa og deya þínum Endurlausnara. Lát þú aldrei Guds þíns allstadar nálægd hvarfla þér

úr hjarta; samanjafnadú veraldariñar fáfengilega glansa, sem er hégómleg dýrd, vid hin varanlegu gædi, sem himinninn hefir þér geymd, og þegar þú sjer jardneskann óstödugleika og fánytju, þá vel þér heldur þá varanlegu og dýrmætu heill, sem trúlyndi þínu og dygd er at himnum geymd. Sem kristinn madur veitstú, ad þú ert ábyrgdadur, ecki ad eins fyrir þetta, heldur miklu framar hid komanda líf; gjættú því þessa fífeldt og hugleid, hvort meira beri ad meta. J öllum mótdrægum tilfellum, sem mæta þér, miñstú þess, ad þú ert kristinn; vertú því hugstyrkur, og vanvyrd þú ecki nafn þitt med mögli og óánægju, því kristinndómurinn heitir þér þeirri dýrmætustu umbun og gledirikustu endaloka allra þinna sorgardaga. En einkum og allrahelzt vid adkomu daudans minnstú þess, ad þú ert kristinn, sé þér þá til þess ræna og ró leyfd í þinni helsótt; hafir þú ádur í þínu lífi tamid þér kristilegt hugarfar og framferdi, máttú, þegar þessi sídasti máttugi óvinur nálgast þig, óskélfdur og rór taka honum, og segja, í krapti trúar þinnar: Daudi!

eg óttast eigi, abl þitt né vald-
id gyldt! eg er kristinn, og dey ecki,
heldur sofna, svo ad eg uppvaknadur
lifi sæll um eilífd.

## 8. Hugvekja.

Látid ydar ljós lýsa svo fyrir mønnum, ad
þeir sjái ydar góðverk, og dýrki Fødur
ydar á himnum.

Sérhvørr dagurinn, sem vér lifum,
krefur af oss, vandlega ad geyma
vissar skyldur, sem eptir ásigkomulagi
og kríngumstædum þeim, sem vér lifum
í, eru ysrid margfaldar. A hvørjum
degi egum vér ad hafa skyldur þessar oss
fyrir augum, ef vér ecki gleyma viljum
hvar til vér erum skapadir, og til hvørs
vér egum ad lifa. Í ydjuleysi egum vér
víst ecki ad eyda vorum døgum; sífeldt
egum vér kappkosta, ad gjøra nockud
gott, og láta oss annt um, svo framt
oss er møgulegt, ad útrýma løstum en
útbreida dygdir, og gjøra allt þad gott,
sem vér megnum í verøldinni; hús þad,
í hvørju vér búum, manneskjur þær, er
vér daglega umgaungumst, er vor ver-
øld

eld, sem oss er vidkomandi, og þær eig-
um vér ad leitast vid ad betra og bæta.
Vér egum á sídan reikníng ad standa
fyrir þad, hvørsu mikid eda lítid vér gjørt
høfum, til ad vidhalda sønnum Guds
ótta hjá þeim, sem eru oss áhángandi,
eilegar ad minsta kosti, komid í veg fyr-
ir drottnándi lesti hjá þeim. A høgum
vorum og ásigkomulagi má standa hvørn-
inn sem vill, oss er þó ætíd møgulegt
ad stuðla til nockurs góds, og hindra
nockud illt; vér umgaungumst mann-
eskjur, vér egum vini, margfeld tæki-
færi gétum vér fengid hjá þessum og vid
þá, ad verda nockurs góds ollandi, og ad
fá þá betrada; á medal margra ónytju
orda, má opt eitt einasta lagfærîngar og
frædandi ord færa ávøxt. Þegar vér
minnumst þess, ad Gud og samvitskan
er oss meira verdt enn allt annad; þeg-
ar manelskan er ordin oss ad vana-dygd,
þá verdur oss ætíd andunnid ad stuðla
til nockurs góds, hvad lítid sem þad vyrd-
ast má. En byrja megum vér jafnan
á því fyrst, ad ástunda vora egin betr-
un; minn breiskleiki er mér ætíd nálæg-
astur, og þegar mér er fyrst af alvøru
ord-

ordid um þad ad gjøra, ad betra mína egin sálu, þá mun eg einnig gjøra mér alvarlegt ómak fyrir minna medbrædra heillum; já, þegar þvílíkt hugarfar er drottnandi ordid í sálu vorri, hvørsu mun þad þá særa oss, ad sjá hina lastafullu sækjast viljandi eptir egin ógjæfu þeirra? hvílíku ómaki, bænum og yfirtølun munum vér þá ecki verja til ad frelsa þeirra sálu? Ad framgánga í heiminum med þessu rádvanda hugarfari, einsetium vér oss nú á þessari qvøldstundu; eins og sannarleg Guds børn viljum vér lifa, hvørsu gálausir og andvaralausir sem þeir eru, er vér lifum á medal. Gud bidjum vér ad vardveita oss frá, ad géfa ødrum dæmi af oss til ógudlegs framferdis, heldur styrkja oss til ad ástunda, bædi med líferni voru og uppbyggilegum advørunum, ad efla rádvendni og Guds ótta ætíd meir og meir, og þó ad oss skyldi hér til vanta tækifæri, viljum vér þó med egin dæmi og framferdi voru, leitast vid ad verda sem fleirstum til uppbyggíngar. Uppfyll þú, o vor Jesú! þessa vora laungun! þú, mikli Mannelskari! ervidadir óþreytanlega

lega til allra maña velferdar; allt gjørdir þú til þess, ad draga til þín syndarana; þú úthelltir tárum út af Jerúsalems spillíngu. Géf þú oss nád til ad líkjast þér í þessu medaumkunarsama hjartalagi, og afneita eginn vilja og ávinníngi, fyrir vorra brædra heillum. Hvørsu guddómlegrar gledi má þad ecki abla oss, þó vér gætum ecki áuñid nema einn syndara, sem vér fengjum til ydrunar leiddann! þó vér gætum ecki gjørt gott nema einum vesælum þurfandi! Géf þú oss nád til ad smacka þessa himnesku gledi, sem auka mun á sídan vorrar eilífdar sæln.

## 9. Hugvekja.

Þackid þér Drottni, þvíad hann er gódur, og hans miskuusemi varir eilíflega.

Ad gjørvøll jørdin sé full af Guds gædsku, þad má af egin reynslu sérhvørr af oss játa. Andinn, sem vér drøgum, ljósid, sem lýsir oss, eldurinn, sem vermir oss, jardariñar ávextir, sem fæda oss, vatnid, sem endurnærir oss, dýrin, sem þéna oss bædi til næríngar

og þarfa; allt þetta eru hlutir, sem vér játa megum, ad beri vitni um Guds miklu gædsku, sem vér njótum á hvorjum degi; og þó eckert væri annad ad finna á jördunni enn þad eina, sem vér vidþyrftum til naudsynlegasta vidurhalds lísi voru, mætti þó af því einu, mega ánægjanlega þeckja gædsku vors Guds; en þessir hans jardnesku velgjorníngar eru ecki vid þetta eitt takmarkadir, því hann hefir engu sídur alid onn fyrir ánægju vorri, enn vorum naudsynjum. Lífinu hefdum vér fengid vidhaldid, þó vér hefdum ecki haft til næríngar nema einstaka og einfalda fædu, en hvad margskyns mat og dryck hefir Gud ecki géfid oss? hann upplýkur fyrir oss øllum náttúrunnar fordabúrum, til ad gjøra oss glada og ánægda; ecki einúngis útbýr hann náttúruna ríkuglega og til þægilegheita fyri vorn smeck, heldur og til ad gledja med øll vor skilníngar=vit. Á sumardaginn géfur náttúran oss yndæla sjón í grænum og blómlegum grasmørkum, og prýdilegustu blómstrum, er ecki einúngis skémta augann med margføldum litum, heldur útbreida þar hjá

sætann ylm; eyrad gledur fuglanna saungur, sem fyllir loptid med inntakandi tónum; gjørvoll náttúran sýnist ad keppast vid ad géfa oss forsorgun, endurnæríngu og lystisemdir; øll jørdin er full af Guds gædsku. O Drottinn! fyrirgéf þú oss vorn breiskleika! hjartanlega óskum vér ad géta verduglega prísad þig fyrir þína velgjørnínga; en vort málfæri er ofstyrdt, til ad fá útmálad hvørsu nádugur, æstúdlegur og gódgjarn þú ert; því midur, sem vér finnum oss því varna, ad útmála eg med ordum ad inna þér þá lofgjørd, sem þú ætt af oss skylda, því umhyggjusamlegar viljum vér leita allra tækifæra til ad sýna þad í framferdi voru, ad þú ert sá, eptir hvørs vilja vér viljum haga oss í øllu; og med þeirri æstundun vogum vér ad vænta oss, med sérhvørjum degi, sem vér lifum, nýrra velgjørnínga af þíñi Fodurhendi. Hjartkjæri Fadir! med glødu, þacklátu hjarta vidurkénnum vér þína óverdskuldudu nád; þessi vidurkénníng skal framvegis stjórna athøfnum vorum; vyrdstú ad styrkja hjá oss elskuna til þín, sem er grundvøllur gjørvallrar sinnis-

ró-

rósemi vorrar. Hvad fengi affakad vort óþacklæti, ef vér endurgyldum þiñ kjærleika med ódygd eda óhlýdni? hvornig mættum vér vænta þess, ad þín miskun samt mundi áfram halda, ad audsýna oss svo mikid gott, ef vér létum hana eckt upphvetja oss til ástundunar ad þóknast og þjóna þér? Allt hvad vér dags daglega reynum og sjáum; þínir velgjørníngar, sem vér ørlátlega þyggjum; náttúrunnar oss haggvæma nidurskipan og ørlátu gáfur, allt þetta, med ótal fleiru, skuldbindur oss til ad elska þig, Skaparann alls, fram yfir allt. Þín fødurlega stjórnan og rádstafan á høgum vorum, sannfærir oss um þiñ náqvæma fødurkjærleika, sem vér ad lokunum munum kannast vid, ad leiddi oss eptir sínu vísdóms rádi, og loksins til eilífrar æru.

# 10. Hugvekja.

Vor borgarréttur er á himnum, hvadan vér væntum Frelsarans Jesú Krists.

Mfrid margt er þad, sem vekja má hjá oss minni þess, ad vér séum útlendir og Pílagrímar hér á jordu. A hvorn

hátt sem ver skodum ásigkomulag vort, megum vér játa: ad vér erum hér í heimi vegfarendur, sem egum hér engan blífanlegann samastad. Líkami vor, þetta veika og hrørlega hreysi, sem hjá þeim sterkustu ecki fær stadist eda haldist vid, nema um nockur ár, minnir oss á, ad loksins, eptir þau fáu ár umlidin, hrynur þetta af elli, hafi ecki eitthvørt tilfelli ádur kollvarpad því. Þessi hrørlegi bústadur sálar vorrar, er óneitanleg røksemd þess, ad vér erum hér útlendíngar, og egum hér ecki blífanlegann samastad. Sálu vorri er þannig varid, ad hún minnir oss á þennann sannleika; siálf verdur hún vid eckert af þessu jardneska róleg til lengdar, eda ánægd og fridud þegar hún er óróleg; því øllu þessu jardneska er svo varid, ad þad er fallvalt og forgengilegt. Þessa heims æra og metord reynast oss opt fánýt og vøllt; vellystir, hvørra vér njótum, jafnast ecki vid leidindi þau og órósemi, sem þeim alloptast fylgir á eptir, og þó eykst hér á, ad þad veldur mikillar mædu, ervidis og órósemis, ad ødlast þessi jardnesku gædi, og enn þá meiri ad fá þeim haldid. Standi

nú

nú svo á högum vorum hér á jördunni, hvörsu mjög breyttum vér þá gégn vorri áqvördun, ef vér lifdum eins og þessi heimur vera ætti vor ævarandi samastadur? ad vera þar um sannfærdur, ad þetta líf er Pílagrímsstand, og samt ad képpast framar öllu eptir vellyst og munadi; samt ad gleyma vorum eilífa áqvördunar-stad; samt ad géfa oss alla vid þessa lífs gædum, strídir allt hvad á móti ödru. Fyrst vér nú þeckjum oss ad vera hér útlendínga og Pílagríma, ber oss ad temja oss allt annad hugarfar; þó oss sé leyfilegt, med réttu, ad eignast, eda ega sérhvör jardnesk gædi, ber oss ad ega þau, eins og vér ættum þau ecki; svo laust á vort hjarta vid þau ad vera; vér megum brúka tímanleg gædi, án þess ad láta þau táldraga oss til heimsins lasta, hvörjir aldrei mega flecka þann kristna, sem væntir sér sællrar vistarveru á himnum. Því lengur sem vér lifum, því fleiri lífsins dagreisur, sem sá alvaldi lífsins Herra leyfir oss ad enda, því hugfastari sé oss þánki sá: ad nú skamt sé vort æfiskeid runnid, og því framar egum vér ad láta oss í léttu rúmi ligg-

ja allt stundlegt, sem oss mætir á vorri vegferd í lífinu. AE! vyrdstú eilífi Fadir og Gud! ad vekja og vidhalda hjá oss þessari íhugun! af skilníngarvitaña tillockunum og vellystíngaña fánýtu gledi, gleymum vér allt of opt, ad vér erum hér Pílagrímar, nema þinn Andi upphvetji oss til ad gjæta þessa, og til ad láta þá adgjætslu gjøra oss varhygdarsama í voru gjørvøllu framferdi. Leid þú því þánka vora frá þessu útlegdarlandi, gégnum hvørt leid vor nú liggur, til þess oss fyrirbúna lands, sem vér képpumst ad ná, og láttú íhugun þeirrar dýrdar, sem þú unntir oss ad þeckja þar oss ætlada, gjøra oss óþreytanlega, hvada ørdugleiki, sem oss mæta kann hér, á leidinni þángad; þar munum vér á sídan, eptir afstadna mædu vorrar Pílagríms ferdar, njóta endurnærandi rósemdar og hvíldar, og ríkuglegra umbuna fyrir alla mædu, erfidi og þjáníngar vors lífs, sem vér farsællega yfirunnum.

* * *
* * * * *

II. Hug-

# II. Hugvekja.

Þegar eg hefi þig ad eins, þá hyrdi eg hvorki um himin né jörd; þó ad líf mitt og sál vanmegnist, þá ertú þó, Drottinn! mitt hjartans traust og hlutskipti.

Ef ad vér findum oss þannig sinnada, og þegar þetta trúnadar-traust væri vel grundvallad í sálu vorri, hvörsu rólegir mættum vér þá ecki leggjast til hvíldar á hvörju qvöldi? hvörsu ánægdir med sérhvör tilfelli, sem ad höndum bera, og óqvídnari fyrir því, sem óvíss komandi tíd lætur oss mæta? En, hvörsu opt vekst eckt vantrú og óánægja hjá oss, yfir Guds vegleidslu, þegar oss finnst hún ecki samsvara vorum óskum? hvörsu opt möglum vér ecki í voru hjarta gégn Gudi, sem leidir oss þó med svo miklum vísdómi og gædsku? Máské, ef vér þtarlega ransökudum vort egid hjarta á þessu qvöldi, ad vér margir findum þad fullt af vantrú og óánægju; máské yfir því óánægt, ad vér egum vid einhvörn bágann kost ad búa, ellegar áhyggjufullt vegna þess, ad vér ecki hreppt fáum eitt-

 hvad

hvad þad, er vér álítum sem luckn og ó-
missandi fyrir rósemi vora. En, minst
þú þess samt, kristni madur! sem finn-
ur til þvílíkrar óánægju og módleysu
þinnar sálar, ad þú syndgar med mögli
þínu og vantrú á móti Gudi; hann er
og verdur vís og nádugur Gud, hvorsu
mjög sem þú möglar; máské þú stynja
megir undir einhvörju mótlæti, og sért
þess vegna óánægdur? en, yfirvega þú
þitt umlidna líf, og þá mörgu velgjörn-
ínga, er Gud hefir látid þér tje; hvörsu
margar þjáníngar þú ádur hefir, fyrir
hans krapt, fengid afstadid, margar
freistíngar sigrad; hvörsu margra gledi-
daga hann hefir unnt þér, já, lángtum
fleiri enn þá fáu sorgardaga í öllu þínu
lífi; og því skyldir þú þá ecki þolinmód-
lega taka skammvinnri mædu? Sérhvört
ásigkomulag lífsins, hefir sér samfara
nockurn ördugleika og órósemi; met þú
þig sælann, ad þú ert einn medal ann-
ara í veröldinni, sem forsjón Guds ber
umhyggju fyrir. Þér ber og ad víd-
frægja Guds dýrd, og vidurkénna: ad
sérhvört tilfelli sem þér mætir, lýsir
hans hátign, forsjón og gædsku. Gjör

þú

þú því ecki að engu hans vísa tilgáng við þig með óþarfa umqvörtun, heldur dýrkaðu hann sem ber, með staðföstu trúnaðartrausti til hans forsjónar; géfðu þig fús honum á vald til allra umráða; aðgættu, hvörninn þér mundi vegna, ef Guð ecki elur fyrir þer önn; hvaðan mundir þú þá ødlast fœði og forsorgun á hvörjum degi? hvörr mundi varðveita þig fyrir øllum slisförum, fyrir øllum háskasemdum, sem umkríngja þig? þackaðu Guði og gleð þig við það, að þú reynir hans gœðsku, sem elskuriks Føðurs, er fœðir þig og klœðir, og þér til góðs stjórnar øllum þínum lífskjørum. Í sífeldugu trúnaðar-trausti til Guðs, máttú því á qvøldi þessu til hvíldar gánga, og vakna rólegur til að framhalda þínu lífsskeiði undir hans varatekt. Satt er það, að ecki veitst þú hvað á nærsta degi muni þér mæta, en prísa þú þig þeim mun sælli, að þú veitst það ecki; láttú þér nægja, að vís og nærgætinn Faðir þinn á himnum, best veit hvað þér hagar, og þessvegna kanntú með vissu hins besta að væhta frá hans hendi; og þó að þú ættir nú að búast við einhvörju mót-

læti, því skyldi það gánga þér til hjarta? gættú þess, að Guð, sem sendir þér það, sendir þér einnig styrk og huggun þegar þér áliggur; en, því væntir og óskar þú þér stöðugrar lucku hér, hvar þú veitst allt að vera óstöðugt í þessari veröldu, og mátt þar hjá vita, að þú ert ecki fær um hér að bera stöðuga lucku? Vertú því með rósömu gédi hér, það litla, sem eptir er æfinnar, uns þú verður fluttur til annars og betra lífs; þar munu allar skynsamar óskir þínar uppfyllast, þín gledi stöðug og óblandin verða, og þar þín heill eilíf og fullkomin.

# 12. Hugvekja.

Endurnýist í anda yðvars hugskots, og íklæðist þeim nýa manni, sem eptir Gudi er skapaður, í réttlæti og heilagleika sannleikans. (Ephes. 4.)

Sérhvörjum, sem annt er um að lifa eins og réttkristnum ber, er yfrið nauðsynlegt, daglega að gæta þess: til hvers Guð hefir géfið honum lífið, og læra af þeirri aðgætslu, að setja óskum

sínum

stunum og laungun eptir því jarðneska, víss takmörk, en þarámót fela sig og öll sín efni á vald og stjórnun Guðs alvísu forsjónar. Hugleiðtú því, maður! sem kristinn villt heita: að þó að Guð unni þér sem lengstra lífdaga, áttú samt enn framar að lengja þá, með brúkun þeirra til góðs, og læra, að minnsta kosti, að lifa, áður en þú deyr.. Vor sanna lucka er ecki komin undir því, að vér lifum lengi, heldur hinu, hvörninn vér lifum. Láttú því aldrei þann þánka villa þig: að metorð, ættgöfgi eða auðlegð fái þér varanlega heill eða ánægju veg; því sú ímindaða heill hvílir á fallvöltum og fánýtum grundvelli, og er bygð á hjegómlegum og forgengilegum hlutum en ecki dygð. Sanna heill má finna í hvörju helzt standi sem vér lifum, svo að sérhvörr megi ánægður lifa, hvörr uppá sinn máta; og þó leita fáir luckunnar með réttri aðferð, þó allir' óski sér að verða luckusælir. Varastú því uágvæmlega þeirra bresti, sem sífellt óska sér ofmikils eða oflítils; væntú þér aldrei ofmikils, og ödlist þú ecki það litla, sem þú væntir þér, áttú fyrir það aldrei að

ørvhǿlnast. Varastú ydjuleysi og undandrátt þess, sem skylda þín býdur þér strax ad framqvæma; géfdú náqvæmar gætur ad øllum þínum fyritækjum, egi lífid ecki ad verda þér eins og draumur, hverfa þér og lída burt í fánýtum, ímyndudum lystisemdum. Ástunda þú því í tíma, ad læra ad lifa, og á medan þér lídur ølsu vel, ad vera ánægdur, þó ad þig eitthvad bresti; neita þú þér því ǽ stundum jafnvel leyfilegra lystisemda. Sértú reidigjarn, þá varast þú ad láta skapløst þenna fá yfirhønd; því reidi kañ á einu, ugnabliki ad olla þér meiri skada, enn þú fær þér bættann á heilu ári, eda máské alla æfi; hún sviptir þig þar hjá sinnisróſemi, því gledi, ró og ánægja fær ecki búid nema í hógværu og fridsømu hjarta. Vor gledi hér á jørdu er aldrei nema skamvinn og blønduð sorg; forgéfins er því ad leita hér stødugrar farsældar. Láttú þér lynda, þó ecki hreppir þú allt þad, er þú metur sem lucku, og þess vegna æskir þér, sértú ad eins ecki ólánsmadur, en verdir þú þad, ellegar kallir þig svo, þegar þér ber mótlæti ad høndum, þá adgættú, hverjar

þín=

þínar þjáníngar eru, og ber saman þad sem þú lídur, vid þad, sem margir adrir medbrædur þínir mega bágt umbera; álíkt og bíflugur sjúga húnáng af blómstrum, skalt þú leitast vid ad færa þér allt í nyt; jafnvel þad lítilsjörlegasta má þannin verda þér ad gagni. Lærdú ad höndla þá luckn, sem fáir vita ad meta rétt, og færri því æfa rétt, ad gjöra ödrum gott, med náqvæmri yfirvegun og skynsemi; keppstú vid ad líkjast í því Gudi, og láttú þér annt um ad gjöra medbrædur þína farsæla, ad því leitt þér er mögulegt. Minnstú þess: ad tíminn lídur skjótt, og því sífellt þeirra heilræda: ad endurkaupa tídina, og brúka hana vel, án forsómunar; þó þá verdi líf þitt stutt, verdur þad samt loflegt, ef þú vid þitt endadægur og á daudastundunni fær med fullri sannfæríngu sagt: eg hefir lifad mínum Gudi og medbrædrum, og á sérhvörjum degi míns umlidna lífs stundad ad gjöra nockud gott, og þar med viljad hafa í minni mína áqvördun.

* * * * * *
* * *

# 13. Hugvekja.

Litid upp, og upphefjid ydar hofud, af þvi ydar Endurlausn tekur ad nálægjast. (Luc. 21.)

Einhvør vor sérlegasta skylda á medan vér lifum, er, ad læra ad þeckja þañ himin, í hvørjum vér óskum oss á sídan ad ná vistarveru; en þad er líka vor skylda, ad læra ad þeckja heiminn, sem vér lifum í, og þær háskasemdir, sem oss í heiminum umkríngja. Þecking þessi á himninum og heiminum, er fortakslaust ómissanleg til vorra heilla; því ef vér ecki þeckjum himininn, hvørnig an oss þá til hans ad lánga? ef vér þeckjum ecki heiminn, hvørnig egum vér þa ad fa umflúid þær háskasemdir, sem óttast er, ad gjori oss hvørt augnablik ófarsæla? Himininn og heiminn, og hvørs ansigkomulag fyrir sig, egum vér því, í voru gjørvøllu lífi, stiftelt ad hafa fyrir augum; vér megum nota oss gædi þessa heims, an þess ad gleyma himninum; en farsinna og farfrædi vort hindra oss ósjaldan þar fra; vér þeckjum hvørki

himininn né heiminn svo vel, sem oss ber; vér festum vor hjörtu svo mjøg vid þetta forgengilega jardneska, sem vér sjáum og oss gledur, ad vér gleymum ad þenkja til himinsins, eda vekja hjá oss laungun eptir honum og því eptirkomandi, sem oss er fjærlægara og vér sjáum ecki. Látum oss því einusinni yfirvega þá jørd, sem vér byggjum, og þann himin, í hvørn vér óskum oss ad lokunum inngaungu; samanberum þad illa, sem vér þeckjum í þessari veroldu, vid þá sælu, sem oss er opinberad ad himininn hafi oss um eilífd tilreidda; víst mættum vér, vid þann samjøfnud, sannfæraſt um þad, ad þessi heimur er oss sem eckert, en himininn sem allt, og því kappsamari verda ad taka framførum í þeim dygdum hér á jørdunni, sem gjøra oss á sídan hæfilega til himinsins vistarveru. Hvørsu ástundunarsamir mættum vér ecki verda í æfíngu sannra kjærleiks verka, ef vér settum oss fyrir sjónir þann kjærleika, sem þeir sælu útvøldu á sídan bera munu hvørr til annars? hvørsu fúsir til ad stunda af fremstu kroptum, ad fullnægja Guds vilja, ef vér íhug-

um

um hvornig himinsins útvøldu iñbyggjarar meta þad farsæld, ad fullnægja Guds bodum? Hvorsu umhyggjusamlega mættum vér ecki varast alla tvídrægni og fjandskap, ef vér minnumst fridar og einingar þeirrar, sem drottnar á medal þeirra fullkomnari himin-búa? Hvorsu fúsir mundum vér ecki taka sérhvorri lífsins mædu, mótlæti og ørdugleika, ef vér opt hugsudum til þeirra umbuna, sem oss eru vís á himnum, þegar vér hér høfum gódu strídi barist, vardveitt trú og góda samvitsku? Vér viljum því á þessum qvøldtíma, snúa gjørvøllum þaunkum vorum til þeirra himnesku heimkynna, hvørra íbúendur vér á sídan verda munum, og venja oss til ad losa vort hjarta vid heimsins forgengilega hégóma, en æ betur og betur leitast vid, ad ødlast forsmeck himneskrar sælu, sem géfast má hér á jørdu, og sem einn má hér gjøra oss lífid yndælt. Ydduglega skulum vér samanbera himiniñ vid heiminn, þessa lífs fallvøltu og fánýtu gledi, vid eilífdarinnar endalausa og sanna føgnud, og þá mun þessi samjøfnun vissulega leida oss úr øllum skugga um

þad,

það, hvort vér egum heldur og framar ad meta.

## 14. Hugvekja.

Öll jørdin er full af Guds gæðsku.

Gjörvöll veröldin má heita sem skoðunar-pláts, fullt ótal votta um Guds gæðsku og góðgyrni. Engin skepnud skepna er útilokud frá hlutdeild í hans forsjón, en enginn stadur á jørdunni til, sem ecki vitni um hans náð; allstaðar finnum vér Gud, eins í óbygdum eydimørkum og blómgudum grasmørkum; allstaðar bædi á himni og á jørdu, megum vér þeckja merki hans kjærleika, og að í þessari góðgyrni Guds, sem fyllir alla jørdina, tøkum vér mañeskjur mesta hlutdeild. Þegar eg med þessum hugleidíngum skoða náttúruna, hvørsu mikils má eg þá ecki meta sjálfann mig, sem Skaparinn hefir varid svo miklu meiru til? ánægja og þacklæti vid þenna örláta Gjafara allra góðra hluta, gagntekur þá alla sálu mína. Allt hvad skapad er, og sérhvørr partur þess, kéñir oss ad þeckja vorn Skapara, og upphvet-

hvetur til ad dýrka hann verduglega. Til þess lifum vér, og til þess er øll jørdin full af óteljanlegum fjølda skapadra sképna, ad vér af þeirra skøpun og forsorgun, lærum ad þeckja og prísa Skaparann og leita hans dýrdar; vér lærum af þeirri skodun ad þeckja hans takmarkalausu fullkomlegleika, og finnum þarvid tilefni nóg til ad dáudst ad þeim, og til ad vidfrægja hans dýrd. Eckert lífsins augnablik lídur hjá, sem ecki hvetji oss til þessa; því allt vort líf er sem samanhleckjud kédja af velgjørdum Guds; án hans nádarverkana fengjum vér ecki lifad heilir heilsu eda ánægdir eina stund. Því ber, ad þaunkar vorir, hjarta og túnga séu æ full med hans lofgjørd; en vér megum blygdast, ad vér gætum svo litid þessarar skyldu! vér medtøkum þær dýrmætustu velgjørnínga, af vors Skapara mildu Fødurhendi, án þess ad minnast hans; vér heyrum gjørvallann náttúrunnar lofsaung; vér sjáum ánægju alls þess, sem skapad er; vér sjáum jardarinnar blómgun, en rennum ecki þaunkanum til hans, sem gjørdi allt þetta svo dásamlega. O! hvørsu megum vér

ecki

ecki blygdast, ad ecki ein einasta skøpud sképna Guds þegir, heldur vegsamar hvør og ein sinn Skapara; himnarnir framtelja hans dýrd, og sú útbreidda himin-festíng verkin hans handa; einn dagurinn segir þad ødrum, og hvør nóttin kunngjørir þad annari, en vér þegjum og látum oss eckert finnast til alls þessa. Æ! mín sála! láttú þig aldrei finna í vanþacklátra og tilfinníngarlausra tølu; sýng þú hans lofgjørd sem svo er dýrdlegur í øllum sínum verkum. Já, eg vil þitt lof vídfrægja, minn Konúngur! og æfinlega prísa þitt nafn! þú, Drottinn! ert mikill og loflegur, óútmálanlegur er þinn mikilleiki, eg vil vídfrægja þín dásemdarverk, prísa vil eg þitt nafn og mikla þína stóru gædsku! þú hylur himininn med skýum, og géfur regn á jørdina; þú gjørdir túnglid, til ad skipta eptir því árstídum; þú gjørdir myrkrid, svo ad nótt verdi. O! hvørsu mørg og mikil eru þín verk, Drottinn! øllu hefir þú vísdómslega nidurradad; øll jørdin er full af þinni gædsku; allar lifandi sképnur vona uppá þig, ad þú gefir þeim þeirra fædu í hæfilegann tíma; þeg-

ar þú géfur þeim, samansafna þær; þeg-
ar þú uppiðkur þinni hendi, verda þær
mettadar med gædum. Drottinn! þín
dýrd varir eilíflega! þú hefir velþócknun
á verkum þinna handa; sýngja vil eg
Drottni lof á medan eg lifi, og þacka
mínum Gudi á medan eg er til. Til
hvílíkrar lofgjørdar vyrdstú, o vor Gud!
ad láta þína sífeldu velgjørnínga og
nád upphvetja oss, fyrst hér í tíman-
um, og sídan í eilífdinni!

# 15. Hugvekja.

Látum oss eckert þýngja; letjumst ecki á oss
fyrisettu vedhlaupi.

Hanninn er øllum jardneskum hlut-
um varid, ad gott og íllt, sem sam-
blandast hvørt ødru í heimi þessum, er
nærsta fallvalt. Af margfaldri reynslu
høfum vér lært, ad engrar fullkominn-
ar gæfu er ad ósfa eda vænta hér á jørdu;
því hvørnig fær heimur þessi gjørt oss
farsæla, hvar ánægja og óánægja eru
jafnast samblandadar, og hvar vér, á
hvørri stundu, erum undirvorpnir ýmist
einhvørjum mædu-tilfellum eda ræng-
læti

læti vondra manna? En svo ótilhlýdi-
legt sem þessa vegna er, ad láta sér leid-
ast lífid, og af ørvýlnun óska sér daudans,
er hitt engu sídur fáviíslegt, ad leita sér
hér í heimi fullkominna heilla, og festa
hjarta sitt einúngis vid þetta stundlega;
því engin er fásinna meiri, enn ad leita
þess hér í verøldu, sem ecki er til í heñi.
Vér mundum draga sjálfa oss á tálar,
ef vér ad morgni dags vildum gjøra oss
vissa von um, ad lifa ánægdir dagiñ út,
og njóta ómeingadrar gledi og sinnis-ró-
semis. A sérhvørjum degi megum vér
búast vid ad reyna óstødugleika allra
jardneskra hluta, og þess vegna útbúa
oss fyrifram, med þolgædi og hugarmód,
honum á móti. En þegar vér einsetjum
oss í øllu ad láta oss lynda medferd og
stjórnun Guds, verdum vér ecki mód-
lausir, þó óþægileg tilfelli beri oss ad
høndum, sem raska megi um hríd ánæg-
ju vorri. Fyrifram skulum vér því set-
ja oss fyrir sjónir, hvørsu audveldlega
ské mætti, ad vér sviptumst heill vorri
og sinnis-ró; tøkum til dæmis: Eg er
nú í qvøld heill heilsu, eñ ádur eñ nótt-
in er umlidin, kañ máské daudlegur sjúk-

dómur ad boda mér mína burtför. Nú á eg trúann vin ad, en brádum má-hañ kannské verda mér ótryggur; eg leggst nú gladur til hvíldar, en máské eg rísi hryggur úr reckju; eg lifi í qvöld, en hvørr veit hvad fjærri er æfi endi? Pañinn er viturlega þenkt, og skynsamlegt ad haga sér sambodid þessu. Vér egum ad nota oss lífsins saklausu lystisemdir, eins og vér nytum þeirra ecki; vér egum ad gledja oss, eins og vér ecki gledjumst; allra hluta óstødugleiki á ad gjøra oss forsjála og adgætna, og heimurinn, med sinum forgengilegleika, á ad vera oss skóli, í hvørjum ver lærum vísdóm og dygd. Dygd vor og trúnadar-traust á Gudi, mun géfa oss hugarmód og krapta, mun létta undir vora mædu og ervidi, en sefa vorar tilhneigíngar. Pannig fáum vér vidhaldid stødugri sinnis-ró, jafnvel í þeim óþægustu tilfellum, sem ad høndum kunna bera. Hughraustir gaungum vér þá út í sérhvørt ervidi og mædu, sem sá leggur á oss, er gáf oss lífid, og sem hagadi øllu þanninn, ad þess mæda skyldi þess gledi ávallt samfara verda. Med þessu hugarfari meg-

um

um vér vera þess fullvissir, að Guðs ótti gjörir oss auðunnið að æfa jafnvel þær dyggðir sem skyldur vorar, á meðan vér lifum, þareð vér ætíð megum gleðja oss við þá umbun, sem oss er fyrir það á síðan fyrirheitin. Allt þetta jarðneska og þess forgengilegleiki, skal þanninn styrkja oss til að letjast ekki í vorri skyldurækt, heldur því kappsamlegar að stunda vort æfi-skeið til óforgengilegra heilla, sem vér eigum í vændum á himnum.

## 16. Hugvekja.

Ósk ens réttláta hlýtur að uppfyllast. (Orðs-kviða b. 11.)

Allra manna samhuga ósk er sú: að ná farsæld, gleði og ánægju; allir vilja þeir sælir verða; hversu ólíkar, sem manna tilhneigingar almennast eru, kém-ur þó öllum saman í því; að allir óska sér af hjarta, að komast hjá allshåttar ógæfu, og þegar vér sameinum allar vor-ar óskir, innibindast þær allar í því: að vér biðjum Guð um heill og hamingju; en eins er að gæta: veljum vér ætíð þau meðöl, sem í raun réttri eru nægileg til

ad fylla þessar vórar óskir? Ad sönnu erum vér máské ecki öldúngis afskiptalausir um þad, sem horfir oss til heilla og velgengnis; vér gjörum oss ómak fyrir ad eignast trúlynda vini; vér sækjum eptir audlegd; vér olum önn fyrir heilbrygdi vorri og vellídun; vér leitum oss máské framfara í lærdómi; en vér fáum samt ecki, med öllu voru ómaki, náð þeirri heill, sem vér keppumst eptir; med hvorjum degi óskum vér oss enn varanlegri heilla, stodugri glédi og fullkomnari rósemis, enn vorir vinir, vor audlegd, heilsa og lærdómur fengu oss veitt; vér komumst því ad raun um æ betur og betur, ad þvínærlíkt aldrei fær veitt oss þá farsæld, sem vorn ódaudlega anda svo mjög eptirlángar, og þó hefir þú, gædskuríki Gud! ætlad til þess, ad vér skyldum farsælir verda; vyrdstú því, þú Höfundur allrar farsældar! ad vísa oss á þann veg, sem leidir til sannra heilla, og styrkja oss til ad gánga hann áfram stodugslega. Lengi höfum vér híngad til af honum villst, leitad vorra heilla, en ecki fundid þær. Sannfær þú oss því um, ad oss aldrei fær vel vegnad, nema

vér

vér hlýdum þér, nema vér þín vegna hötnum hid vonda, og leitum gledi vorrar í því eina, ad ástunda þinn vilja, og ávinna oss ætíd, med kostgæfni, dygda æfíngu, þína nád og velþóknun. Á sérhvörjum degi komumst vér ad raun um, ad allir hlutir í heiminum eru eintómur hégómi, og þó erum vér svo fávísir, ad láta oss blinda af þeirra glampa og skini. Byrdst þú, o vor Gud! ad kénna oss, ad sú sinnis-ró, sem æ er samfara sönnum Guds ótta, er vor eina stöduga heill hér í heimi, sem eckert jardneskt fær oss géfid, né þess missir svipt oss; aldrei er oss óhult, ad hveirlanleg dæmi og freistíngar mæti oss ecki, sem leida kynnu oss afvega á glötunarinnar breida veg, en láttú þína forsjónarhönd þá halda oss stödugum á þínum sanna og dygdanna vegi; þegar oss verdur villuhætt, géf oss þá nád til ad þeckja, ad þó sá vegur, sem leidir til himinsins, vyrdist oss í öndverdu ördugur, og finnist sem þyrnum strádur, verdi hann þó smámsaman aúdfarnari, ánægjusamari, og ad lyktum sáluhjálplegur; á honum munum vér allt þad finna, sem efla má heill vora; og þó oss bresta kynni

þessa heims audlegð eda önnur jardnesk gædi og lystisemdir, munum vér þó ödl-ast þessa jafnvægi og miklu dýrmætara í ödrum betri. Vor fasti ásetníngur veri því ad gánga, o vor Gud! hédanaf á þínum vegum; æ! láttu þína adstod og styrk aldrei frá oss víkja, því annars er oss hætt vid falli og villu; hjálpadu oss til ad halda áfram vedhlaupi voru undir þinni vegleidslu, og loksins ná því fyrirsetta takmarki, til hvörs vér egum ad keppast, þeirri oss af þér fyrirheitnu eilífu sáluhjálp.

## 17. Hugvekja.

Verid ætíd vakandi, (Luc. 21.)

Þegar vér voknum ad morgni dags, þegar vér leggjum oss til svefns ad qvöldi, á vor fyrsti og seinasti þánki ad íhuga, hvörnig vér fáum haldid sálu vorri sívakandi, til ad varast þann hættu-lega andvaraleysis svefn, sem orsakar ó-farir margra. Þad er víst hid háska-legasta ósigkomulag, sem nockurr fær rat-ad í, ad framgánga alltaf sem hálfsof-andi, án þess ad láta sér í hug hvarfla,

ad endalaus ógæfa kunni audveldlega hann ad yfirfalla øldúngis óvidbúinn, þvíad á sérhvørju augnabliki vors lífs egum og megum vér vænta Jesú tilkomu eptir hans egin fyrisøgn; og þó þad ecki væri, erum vér engann tíma óhultir fyrir daudans adkalli. og þá fær ekkert ástand, hvørsu álitlegt sem þad vyrdist, frelsad oss frá því óttalega, sem af þessari umbreytíngu leida má, fyrir oss, ef vér ecki høfum vid henni verduglega búist fyrirfram; hvørsu naudsynlegt er þad því ecki fyrir oss, ad vera ætíd vakandi, ætíd vidbúnir undir þann sídasta dag, ætíd til reidu ad skipta um veru hér á jørdu fyrir himininn, þó ad mædu, umhyggju og árvekni kosti ad fá þessu hugarfari stødugu vidhaldid. Forsóma þú þess vegna aldrei, kristinn madur! ad sérhvørs dags morgni ad einsetja þér, ad brúka þann dag med árvekni og athygli sérhvørrar skyldu þinnar, og minnstú, hvørsu margbreytt hún er, og hvørsu margt þér ber í þessu tilliti ad gaumgæfa í lífi þínu. Þú, sem tilbidur þann eina og sanna Gud, átt hann ad elska yfir alla hluti fram, og hafa hann þér æ fyr-

ir augum, sem vitni til allra athafna þinna; sem þañ, er aldrei víkur frá þér, og því láta þér undir eins í hug koma: að þessi Guð er þinn œdsti dómari; því ber þér jafnan að vera gætinn í orðum, hreinn í þaunkum og ráðvandur í fram- ferði þínu; þér ber því að varast allar óleyfilegar lystisemdir, og halda þínum tilhneigingum í taumi; aldrei má þitt hjarta festast svo við þessa lífs gæði, að þú vanbrúkir þau til að fullnægja með óleyfilegum gyrndum; hvert á mót áttú til þess að venja þig, ef viðþyrfti, að þú viljugur géfir honum aptur allt hvað þú átt, sem það veitti þér fyrri óverð- skuldað; því síður máttú óánægður mæg- la, þó hann svipti þig því, sem hañ áður gaf. Í stuttu máli að segja: aldrei má þér sú alvarlega æstundun úr miñi falla, að lifa ætíð þannig, að þú megir vænta þér sáluhjálplegs dauða. Við þessa æ- stundun mættú aldrei sloku slæ, aldrei í henni letjast, eða læta nockra veraldar muni blinda þig svo eða svæfa, að þú gleymir þiñi eilífu sæluhjælp. Þareð þín dauðastund er þér óviss, mæt það ské að hana aðberi þegar þig minnst varir,

og

og þú ert aðhyggjulaus; því man þín arvekni aldrei dofna til þinna æfiloka. Ecki nema þeir, sem þangað til varðveittu trúna og góða samvitsku, ega von aa úr býtum að bera réttlætisins kórónu. Vaktú þess vegna, þared þú ecki veitst þaa stund, nær Herrann muni koma, og kalla þig fram fyrir sig, sem Dómara, til að standa sér reikníng fyrir þitt líf, og gjorvallar lífs athafnir. En þú, vor Guð! sem hefir talið vora daga, sem allir eru í þinni hendi, þú, sem þeckir vorn veikleika, vanmátt og óstoðugleika, vyrðst þú að halda oss jafnan vakandi! láttú aldrei þessa heims blindandi glaum svæfa oss svo, að vér gleymum vorri eilífu aaqværðun; géfðú oss krapta til að standa stoðugum í vorum góða aasetníngi, svo að vér verðugir finnast mættum að lokunum þeirra verðlauna, sem trúlyndum þjónum fyrirheitin eru.

# 18. Hugvekja.

Eg vona á þig, Drottinn! og segi: þú ert minn Guð! (Psalm. 31.)

Í þessu óstoðuga, umbreytíngasama lífi, fær oss eckert gjort rólegri en

fullvissa sú: ad allt hvad oss ber ad höndum, öll vor tilfelli standi í hans hendi, sem í sínu valdi hefir bædi öll mannleg kjör og allra manna hjortu; hañ þeckir grant og sjer allar vorar þarfir, hañ veit og medölin, sem ætíd hjálpa kuña; alkunnugt er honum sérhvad þad, sem vidhaldá má voru lífi, eins og hitt, sem því má granda, og eckert fær hneckt hans mætti, mótstadid né hindrad hann frá ad hjálpa oss; hann þarf ecki nema ad bjóda, svo ad allir hlutir fái sína tilveru og gáng, og vilji hans einn er fullnógur til þess, ad þeir verdi ecki ad engu. Í trú til hans almættis megum vér í sérhvörjum lífsins kríngumstædum vænta oss heilla og sigur úr hþtum ad bera, hvor helzt mótlætis reynsla, sem oss ad höndum ber; þó má þad vera oss gledi- og huggunarsam-legast, ad þessi vor Drottiñ, á hvorn vér treystum, er óendanlega gódur, og ad hann elskar oss enn innilegar, enn nockurr fadir fær elskad sitt einka barn; þó ad hann sjálfur engin not hafi af heill vorri, hefir hañ samt laungun eptir vorri velferd, og þessi fullvissa er oss nóg sannfæríng um, ad hañ

muni

muni oss aldrei yfirgéfa. En þegar vér gætum þess, ad hann hefir géfid oss dýrmætustu fyrirheit um, ad veita þeim nád, sem med sönnu trúnadartrausti snúa sér til hans, þá er vissulega eckert, sem vér framar höfum ad æskja oss. Skal réttkristinna dæmi, sem hughreystir vóru í eymdum sinnum og frelsadir úr neydinni, er oss ánægjanlegt vitni þess, ad fyrirheit Guds standa stödugri enn himin og jørd, því þetta er þad huggunarríkasta, ad kjærleiki Guds og trúfesti er engum umbreytíngum undirorpid. Máttugur er vor Gud ad halda sérhvad, sem hann oss heitid hefir; ætíd er hann fús til ad veita oss allt gott, ef vér ecki hindrum þad sjálfir. Allt verdur samfara til ad sannfæra oss um, ad í því sé vor heill fólgin, ad Gud Jakobs er vor hjálp, þegar vér setjum á hann vora von, sem skapad hefir himin og jørd. Vér upplyptum því vorum haundum á þessari stundu til þín, alvaldi himins og jardar Herra! frá þér væntum vér hjálpar og adstodar. Þared vér vitum ecki fyrir vor luckukjør á næsta degi, fáum vér eckert betur úrrádid í vorri óvissu, enn ad fela þér at

vald

vald øll vør tilfelli og allt þad oss mætir, hvørt þad er blídt eda strídt; þad vitum vér, ad aldrei er oss vid óføruun hætt medan þú ert oss nádugur; en vér erum þessa fullvissir medan vér gaungum á þínum vegum, og med øruggu trúnadartrausti setjum alla vora von á þig. Hvørttveggja viljum vér gjøra med rædvøndu hjarta, og jafnan hafa þig oss fyrir augum; vyrdstú því ad uppfylla á oss þín dýrmætu fyrirheit; lættú oss reyna þá adstod þína, hvørrar vér vidþurfum og leitum. Heyr þú nádarsamlega sérhvørrar trúadrar sálar andvarp, sem uppstígur fyrir þinn trón á þessari qvøldstundu; lát og sérhvørn í naudum staddann, finna hjá þér nád og frelsi; heyr þú bænir þeirra yfirgéfnu, og vertú allra þinna mannsképna miskunari, eins og þú ert athvarf og Fadir allra þjóda. O Gud! vér fulltreystum þér! vertú oss ecki fjærlægur med þína hjálp! vér viljum þínu nafni lof syngja, þú hærsti, sem hjálpar svo gjarnan.

* * *

19. Hug-

# 19. Hugvekja.

Þú varst minn Guð frá móðurlífi.

Með engu fáum vér betur styrkt og grundvallað vort trúnaðar-traust til Guðs, sem oss er svo harla nauðsynlegt í þessu lífi, enn með því: opt og ydduglega með eptirþænka að endurminnast, hvörsu Guðs føðurlega forsjón hefir leidt oss dæsamlega í gégnum vort liðna líf, og þau margvíslegu tilfelli, sem oss hafa í því að höndum borið; vér fáum af því sjeð, að vér fyrir sérhvört lífs vors augnablik, eigum Guði lofgjörð og þakklæti að gjalda. Einber gæðska Guðs skóp oss af engu og gaf oss lífið, fyrir hvað oss ber að þjóna honum með því gjörvöllu. Þegar vér rekja viljum lífs vors feril og ástand frá øndverðu, dag frá degi, ár eptir ár, frameptir fyrsta barndóms aldrinum, á hvörsu morgum røksemdum guðdómlegrar Føðurgæðsku megum vér þá ekki þreifa? hvörninn mundum vér, á vorum æskuárum, þegar líf vort héck á veikum þræði, hafa fengið klaklaust komist í gégnum þau margvíslegu hættu tilfelli, sem á þeim aldri hafa

ollað

ollad morgum bana; hefdi ecki Guds fødurleg forsjón vakad yfir oss? hvørnig hefdu vorir veiku, þó svo meistaralega bygdu og samanteugdu limir vaxa kunnad, dafna og þroskast dags daglega, á uppvartar árunum, hefdi ecki sama almætti Guds mindad úr vorum barndómi menn, sem mindadi oss þegar í módurqvidi? hvørsu margar hættulegar sóttir hefdu ecki mátt svipta oss lífi, ef hønd Drottins hefdi ecki vidhaldid því? margt eitt voveiflegt hættu tilfelli mátti fyrir laungu hafa lagt oss í grofina, hefdi ecki verndar armleggur vors trúfasta vaktara verid sífellt útréttur oss til frelsis; já, vissulega mætti fyrir laungu útgjørt vera um vora velferd; vissulega hefdum vér þegar burtryckter verid í vorum syndum, ef vor mikli Arnadarmadur, sem sætt hefir oss vid sinn himneska Fødur, hefdi ecki sífellt bedid fyrir oss. Hans vegna hefir þolinmædi Guds ecki einúngis hlíft oss allt hi... ad til, þó vér svo opt høfum af oss bro... hans nád, heldur egum vér honum, vorum dýrmæta Endurlausnara ad þacka svo margfalda nád Guds og velgjørnínga, sem vér þegid høfum

allt

allt híngad til; hans vegna erum vér frelsadir frá mørgum lífsins sorgum; hans vegna eru vor tár svo opt afþerr-ud; hans vegna erum vér svo opt end-urhresstir med dýrmætustu huggunum í vorum dymmu sorgardøgum, og hvad enn meira verdt er enn allt þetta: ad hans vegna hefir Gud fyrirgéfid oss vor mørgu og miklu afbrøt. Ó! hvørnig fáum vér þackad honum, sem ber, þvílíka vel-gjørnínga! vanmegni vort til lífs og sál-ar, sannfæra oss um, ad oss sé þad ó-møgulegt, ad endurgjalda honum allt þad góda, sem hann hefir vid oss gjørt, en því framar er þad vor skylda, ad prísa þig, vor Gud! óaflátanlega fyrir allt þetta, ad þjóna þér med lífi og sálu, og setja á þig vort gjørvglla trúnadartraust. Svo opt, sem vér rennum þaunkunum til þinna velgjørnínga, svo opt láttú oss í hug koma, hvørsu mikid vér egum þér ad þacka; vér viljum leitast vid ad dýrka þig med gjørvøllu lífi vorn; þannin vil-jum vér ástunda ad lifa, sem þín óendan-lega náð vid oss verdskuldar. Í stødug-um kjærleika til þín, og føstu trúnadar-trausti til þinnar gædsku, upphvetji oss

sérhvörr dagurinn, sem þú lætur oss lifa, og sérhvörr velgjörníngur, sem þú daglega lætur oss í tje. Ef að oss tækist, samsvarandi þessu hugarfari, ætíð að breyta, mundum vér reyna þinn kjærleika til vor því ástúðlegri, því góðgjarnari, sem vér lifum lengur.

## 20. Hugvekja.

Ecki minn, heldur verði þinn vilji.

Svoru valdi er jafnan að biðja vorn Guð; á þessari qvöldstundu verður og efalaust innihald vorra bæna það, sem vort hjarta helzt girnist, nefnilega þetta: himneski Faðir! sem látið hefir oss lifa þennan dag út, láttu ecki þessa nótt verða vora síðustu! hlíf oss fyrir þeim qvíðvænlega skilnaði, sem hrífur oss í skyndíngu á burt frá þeim, sem oss eru kjærastir á jörðunni, ellegar þá frá oss! hlífðu oss fyrir þeim sáru bágindum, að komast í fátækt og verða nauðlíðandi! frá því, að fara með vonarvöl, eða neyðast til að beiðast ölmusu! hlífðu oss fyri lángsömum, þúngum sjúkdóms pínum,

undir hvorjum margir óſka ſér daudans! Þeſſar bænir til Guds eru ad ſönu engaňvegiñ laſtverdar, þó mega þær verda ſvö, ef vér, ſvo ad ſegja, byggjum þar med ad neyda Gud til ad bænheyra oſs, og uppfylla þeſſar óſkir, ellegar ef þær framkoma af óþolinmædi, haſi Gudi ecki þócknaſt ad láta oſs ödlaſt þad vér umbeiddum; því vor ſkylda er, eins þá ad láta oſs lynda, ef Gudi þócknaſt mætti ad kalla oſs hédan frá öllu því, ſem oſs er kjært, eda ad ſvipta oſs vinum vorum, ellegar láta oſs rata í armód og volædi; því allteins þá ber oſs med hlýdni fúſum ad fela oſs hans födurlegu rádſtöfun, og ſegja med vorum Jeſú: ſkal eg ecki drecka þann kaleik, ſem miñ Fadir hefir mér géfid? Yfrid hörd ſiñſt oß, ſem af náttúrunni til breiſkum manneſkjum, þeſsi kénníng, en vér erum þó ſkuldbundnir til ad hlýdnaſt heñi, ſem þegnar vors ædſta Yfirherra; hans er mátturinn og Herradæmid yfir öllu því, ſem er á jördüñi, og þegar vér gjætum þeſs, ad hans Herradæmi er áſamt hid mildirkaſta, mun oſs aldrei ydra, ad oß falid höfum hans födurlega vilja, því

allt er oss þad fyrir bestu, sem vor alvisi og nádugi Gud lætur vid oss framkoma. Veiti hann oss ecki allar þær óskir og bænir, sem vér svo yduglega og allopt rhugunarlítid framberum fyrir hañ, og vitum þó sjaldan hvad oss er fyri bestu, géfur hann oss vissulega añad oss hollara í þess stad, sem bætir oss ad fullu søknud þess, sem vér svo ákaft óskudum eptir; þóknist honum ecki ad láta oss ná gráhærdum gamal-alldri hér á jørdu, mun hañ þó, hvørsu fárra æfidaga sem hann unnir oss, á þeim votta oss full merki síns kjærleika, sem gjøra má oss ánægda med burtfør úr þessum heimi; þóknist honum ad svipta oss því, sem vér høfdum mest yndi og ánægju af, þá veitir hañ oss annad hollara í stadinn, sem eñ framar verdskuldi vort þacklæti; finni hann þénanlegt ad svipta oss eignum vorum og senda oss fátækt, hvørr veit hans góda og vísa tilgáng þar med? þóknist honum ad láta oss heilsuveiki tilfalla, viljum vér þó una því vel, þegar hann ad eins vidheldur heilbrygdi sálar vorrar, og lætur oss aldrei yfirgéfna né hjálparlausa í sjúkdóminum þeim,

sem

sem hañ á oss leggur. Vid þessa íhugun finnum vér, ad hvørniñ sem á kañ ad standa fyrir oss, eda hvad helzt sem oss mætir, er oss æ fyrir bestu, ad leggja oß fúsa undir vilja og stjórnun vors Guds. En vyrdstú, o vor Gud! ad láta þiñ góda Anda iñræta oss þetta kristilega hugarfar, og styrkja þad med náð þiñi, þá helzt, þegar vér mest vidþurfum; þegar einhvør lífsins armæda og mótlæti ber oss ad hendum, géf oss þá náð til, med þolugu stødugl yndi, ad þreya undir þjáníngaanna þúngu byrdi, og audsýna þá med voru dæmi, ødrum til eptirbreytíngar, hvørsu óyfirvinnanlegur í øllum þrautum sá sannkristni er, sem sjálfur lagdi sig undir og fol Guds fødurlega vilja.

## 21. Hugvekja.

Þegar vort líf hefir kostulegt verid, hefir þad verid mæda og ervidi, (Ps. 90.)

Yfrid sorgleg er sú afmálan, sem vér megum gjøra oss yfir þad mannlega líf, ef vér tøkum oss fyrir hendur ad yfirvega allann vorn alldur, frá fyrsta

uppruna vors lífs, og höldum áfram til síđustu æfiloka, hvörsu margfaldra eymda og armæđu verđum vér þá ecki var-ir? Hvad er manneskjan á medan hún enn þá er innilukt í móđurlífi, nema vesæl vera og einbert manneskju-efni, og sér einkis medvitandi um ástand sitt; hvörsu mörgum háska-tilfellum er fóstrid ecki undirorpid fyrr enn þad sjer ljós dagsins? varla er þad fullfædt fyrri enn þad tekur ad gráta, rétt eins og þad spái sér þeim forglegu tilfellum, sem því mæta muni á leid lífsins; eckert magn hefir þad sjálft sér til bjargar og frelsis, engin medöl, enga vidburdi, skyn eda úrrædi, heldur verdur því ad hjúkra, og þad nærast og fóstrast af ödrum; hvörsu margföldum háska er þad ecki undirorpid fyrr enn þad fái sjálft stjórnad sálu sinni og líkama? og þegar því vex alldur, lætur veikleiki og breiskleiki vor mannsképna sig snemma í ljósi, í margföldum heimskupörum og brestum. Komist manneskjan af barnsalldri, er henni engu óhættara; vor egin reynsla vitnar gégn oss, ad þó vor skynsemi þá sé-mögnud, vor þecking aukin, vorar skyldur, og hvad oss má til

far-

farſælldar horfa, oſs kunngjørt, breyt-
um vér opt enn berníkulegar enn ádur,
og gleymum ad brúka Skapara vorum
til dýrdar, og oſs til ævarandi heilla,
þeña blómſtrandi part æfi vorrar. Prar
ſinis-hrærſngar og ſyndugar tilhneiging-
ar vara med degi hvørjum, og hjá oſ-
mørgum taka loks ſvo yfirrád yfir ſkyn-
ſeminni, ad þvi elldri vér verdum, þvi
meir fjærlægjumſt vér Gud og hans
vilja; ſtundum uppblæs oſs reidi eda
dramb; ſtundum brennum vér af loſta,
ágyrnd, ofund og hefndargyrni; ydju-
leyſi leidir oſs á ſtundum til margra añ-
ara laſta, ſem olla oſs ſinnisóróa, vond-
rar ſamvitſku, ótta fyrir Guds ónád og
margfaldrar ógæfu. Med fullordins
alldrinum margfaldaſt vorar eymdir og
andſtreymi þvimeir, ſem vér høfum fleira
ad añaſt, og egum vid bágari koſt ad búa.
En loksins kommumſt vér nockrir á hid
efſta ſkeid mannlegs alldurs, og þá er
vort áſigkomulag allopt hid aumaſta; þá
gjoraſt augu vor ſljóſkygn, eyrun heyrn-
ardauf, andlitid hruckótt, høfudid hvítt
af hærum, ſmeckurinn deyfiſt, tennurn-
ar falla burt, hendurnar ſkjálfa og allur

vor líkami vanmegna, vér verdum börn á ný, ósjálfbjarga og annara hjálparþurfar; hér á bætast einatt svefnlausar nætur, völ og bjargar ábyggja, harmatölur, líkams lasleiki og sjúkdómar, og hvorr fær talid allar þær eymdir, sem ellinni á stundum fylgja, og ecki skilja vid oss fyrri enn vér liggjum lík? Loksins rotnar þetta í grøfinni, nagast af ormum og verdur ad dupti; og þetta er þad seinasta, sem vér þeckjum til mannlegs lífs hér á jordu. Nockud af þessu forelega hefir margur af oss þegar reynt, en hvörsu margt má ecki enn fyrir oss liggja? máské næsta nótt eda næsti dagur hafi oss nockrar þesháttar lífsins eymdir fyribúnar; á hvörjum helzt alldri sem vér erum, megum vér búast vid einhvörjum á ókomna tímanum, en fyri honum og því, sem oss þá mæta kann, fáum vér aldrei betur sjed, enn med því, ad fela þér, o vor Gud! og þinni nádugu umsjón, á vald alla vora komandi æfidaga; án þinnar adstodar og hughreystingar, verdur oss lífsins mæda óttafull; med þínum styrk og fullvissunni, ad allt verdi þeim til góds, er þig óttast, verdur

ur hún oss léttbær. Byrdstú ad miskuna þig yfir oss auma, eptir mikilleik þinnar miskunar!

## 22. Hugvekja.

Sángid forsjálega, ecki svo sem fávísir, heldur svo sem vísir. (Ephes. 5.)

Ad sérhvörju qvøldi hofum vér yfirfarid lítinn spøl vegferdar vorrar hér í heimi, og ferdumst nýan á sérhvörjum morgni dags; má oss því vyrdast, sem oss med degi hvörjum birtist ný veröld, í hvorri vér ecki einúngis megum búast vid nýum freistíngum, heldur nýum skyldum, sem oss ber ad geyma. Fyrirframm er því rádlegast ad morgni hvørs dags, ad þú, kristni madur! sem vilt lifa forsjálega, skodir og yfirvegir í einrúmi sérhvörja þá skyldu, sem þér á þeim degi ber ad framqvæma; vertú því aldrei áhyggjulaus og óvidbúinn á morgni hvørs dags, ad taka forsjálega því, sem þér mæta kann í veröldinni, heldur gætt þess, hvörsu hættuleg hún má verda hjarta þínu, þegar þér várhygdarlausum

 mæta

mæta þær gyñíngar, sem hún opt framþýdur. Nema Guds ótti vísi þér veg, nema Guds allstadar nálægd gleymist þér ecki, verdur þér villuhætt í heimsins tælanda glaumi og gjálfi; þess vegna ber þér ad morgni hvers dags, ádur enn þú géfur þig úti heimsins hættulega soll, ad hugfesta skyldur þær, sem þér ber ætíd fyrir augum ad hafa, í öllum lífsins umsvifum. Lát þú náqvæmia skodun náttúrunnar nidurskipunar, og yfirvegun gudlegrar stjórnunar, kénna þér ad þeckja Guds miklu eginlegleika; mundú til Guds óendanlegu alvítsku, sem gjörþeckir allar sínar sképnur, gjörvallar athafnir sérhvörrar, og þeirra huldustu þánka; þetta á ad vekja hjá þér heilagann ótta fyrir hans hátign, sem varni þér ad ala synduga þánka í hjarta þínu. Minnstú opt allstadar nálægdar þíns Guds, sem má vera þér yfrid huggunarrík, þegar þú undir eins minnist, ad Gud er þinn Fadir og verndari, hvar sem þú ert staddur; yfirvegadú í huga þínum hans óendanlegu gædsku, ad vor Gud er einber kjærleiki, og ad gjörvöll náttúran er full af hans gódgyrni; rík-

jadu

jadu upp fyrir þér dœmi uppá hans margføldu og sérlegu vernd, frelsi úr háskasemdum, dœmi ótal óvæntra velgjørnínga, sem þú hefir adnotid á umlidinni æfi þinni, af hans miskun; hugleid þú fávitsku maña og spillíngu, sem veki hjá þér undrun yfir Guds óþreytanlegu þolinmædi og lánglundargédi; láttú þér í hug koma afbrot þín, til þess, ad ydrast þeirra af hjarta, en einkum og allra helzt, vyrdtú fyrir þér Jesú ómetanlega kjærleika: skodadú hans nidurlægíngu, ad gjørdist manneskja; ad taka uppá sig vort hold og blód, og allann mañlegañ veikleika; ad þola, vor vegna, allskonar vanvyrdu og þjáníngar, og loksins krossins bitra dauda. Hvorsu undrunarverdur, hvorsu guddómlegur og óútmálanlegur er ecki þessi Jesú Krists kjærleiki! láttú þánka þína fylgja honum eptir í gégnum allt hans líf og allar hans píslir, til grafarinnar; set hann þér fyrir sjónir í hans upprisu dýrd, og í hans hátignarfullu himnaför, en reñdú þá undireins augunum til sjálfs þíns, og sjádú hvorsu breiskur og vanhelgur þú ert; þar af fær þú lært ad þeckja mikil-

leik guddómlegrar nadar hér til handa. Þegar vér æfum oss í þvílíkum hauntum ad morgni dags, og gleymum ecki heldur því sama ad qvøldi, munum vér efalaust fá sigrad sérhvørjar freistíngar, sem oss mæta; audveldara mun oss þá ad gæta vorrar skyldu, því kraptur Guds mun þá styrkja oss veika; þá munum vér ad qvøldi sá gladst yfir velbrúkudum og farsællega endudum degi.

## 23. Hugvekja.

Þú ert mitt Traust, Drottinn! Drottinn! mín von í frá úngdómi mínum. (Ps. 71)

Séum ver sannfærdir um þad, ad gjørvallt rád Guds er einúngis gædska og vísdómur, ætti eckert, sem mætir oss í heiminum ad abla oss lángvinnrar hrygdar; því skyldum vér þá mögla yfir stjórnun Guds, eda gjøra oss sjálfa órólega med ónýtum sorgum? Engannveginn skulum vér qveina, þó ad vér fáum ecki allar vorar óskir uppfylltar, því hvørr veit nema þær hefdi ordid oss til ógæfu eiñar, ef veittust; viljúng-

ir

ir skulum vér því fela oss á vald Guds, hvørs náð er óendanleg og æfarandi; hvørsu luckusæla megum vér ecki alíta oss, ad sá almáttugi sjálfur verndar oss, vidheldur og forsorgar oss, og þó ad oss bæru nockrar motlætingar ad höndum, því skyldi þad abla oss hrygdar, fyrst þær úthlutast oss af vorum vísa og miskunsamasta Fødur? Sannarlega fáum vér eckert ríkara thugunar-efni, enn þad, ad vér stöndum undir umsjón og varatekt lifanda Guds; ef ástríkur fadir vill ecki gjøra barni sínu mein, hvørsu sídur mun þad Gudi ætlandi, hvørr, eins og fadirinn miskunar sig yfir sín børn, eins miskunar Drottinn sig yfir þá, sem hañ óttast. Í stjørnun heimsins fiñum vér óteljandi kénnimerki guddómlegrar speki, nádar og almættis, því skyldi þar sú adgætsla ecki hvetja oss til, med ánægdu hjarta, ad lypta vorum hjørtum upp til þessa alvalda Herra, sem svo dásamlega stýrir øllu, og hefir svo nærgætna og nágvæma umsjón med lífi voru, og vakir ætíd yfir oss. Allur ótti, allur qvídi má því hverfa oss, þegar vér hugleidum, ad Gud er oss nálægur, allt-

eins a heimugleguſtu ſtødum. Eg er, maa ſérhvørr af oſs þenkja, hér einmana, en Gud er og med mér; eg geng hér ein-ſamall, en Gud leidir mig vegiñ; hvørt ſem eg tala, þeñki eda þegi, ſier og þeck-ir Gud allar mínar hugreñingar og allt hvad mér mætir. Beri mér mæda nock-ur ad høndum, leita eg hennar úrræda hja mínum Gudi. Njóti eg nockurra lífsins ánægju-ſtunda, a eg ad þacka þær mínum himneſka velgjørara. Ut-helli eg í einrúmi harmatarum, veit eg hann ſier og telur þau. Andvarpi eg í mínum einmanaſkap og eymdum, er eg ſamt viſs um, ad Gud minn ſier og heyrir mín andvørp. Sé eg í hæſka ſtaddur, veit eg ad Gud er minn vernd-ari. Megi eg ſia a bak øllum mínum beſtu aſtvinum a jørdunni, veit eg þó, ad Gud er, og verdur til eilífdar, minn beſti og trúfaſtaſti vinur; og lokſins, þegar ad því kémur, ad eg ſkal yfirgéfa þenna heim og ſafnaſt til fedra miña, mun ſa Gud, ſem gjørdi mér ſvo margt og mikid gott í lífinu, verda mér einnig nádugur Gud í dauda. Þegar vér nú í ſálu vorri høfum grundvallada þeſſa

trú

trú og von til ens alvalda himins og jardar Skapara, megum vér hughraust- ir vera, hvad sem ad hondum ber. Ad sonnu vitum vér ecki hvad oss a næsta degi mæta muni, en þad vitum vér med vissu, ad allteins a þeim komandi, sem hinum aflidnu dogum vorra lífs- stunda, munum vér reyna morg merki Guds nádar. Morg þúsund daga hef- ir margur vor lífad, og a sérhvorjum þeirra hofum vér notid einhvorrar nád- ar eda velgjorninga Guds; hvors skul- um vér þa heldur vænta a þeim kom- andi tímum, enn nýrrar Guds nádar? Eptir því, sem vér reynt hofum híngad til þína trúfostu gædsku, o vor Gud og Fadir! vogum vér óqvídnir og oruggir ad fulltreysta henni hér eptir, og fela oss framvegis þér a vald. Vyrdstú ad sjá fyrir rádi voru og ollum vorum lífs- kjorum, samqvæmt þínum náduga vil- ja, en géfdú oss ánægt hjarta med allt þad, er þín speki úthlutar oss; vér er- um þess fulltrúa, ad þú, eptir ad voru reynsluftandi hér í heimi er lokid, mun- ir leida oss til eilífrar æru.

# 24. Hugvekja.

Vorir dagar eru skyndilegar burtflognir enn vefarans spóla, og, eru svo hjáfarnir, ad þar var engin vidstada. (Jobs b. 7.)

Hvørsu hastarlega burtflýgur mannlegt líf! einn dagur er enn að ný, rétt eins og eitt augnablik, útlidinn; og þetta eru almenn kjør allra mannlegra daga, þeir renna á burtu, sem vatnsstraumur, í skyndíngu; einn dagur víkur frá þeim komanda, og mannudurinn og árid flýtir sér hvørt eptir ødru, og þessi umskipti munu vidvara, þángad til tímans straumur þverrar vid mót eilífdarinnar. Hvørsu længt sem vera kann, uns svo almennileg umbreytíng skédur, vid hrun þessa heims byggíngar, er þó máské ælík sérleg nælæg sérhvørjum af oss; því þegar vér deyum, er vor tíd á enda, vorir dagar burtu flognir, og þá býdst ecki framar tækifæri til, ad odlast nád Guds og hans kjærleika, hafi þessa ecki fyrri leitad verid; vid endir þessa daudlega lífs, er bænar, ydrunar og vonarinnar tíd útrunnin; á sama augnabliki, sem daudinn kallar

oss,

ar. Ef ad þú, kristiñ madur! vilt hér í breyta eptir Frelsara þínum, þa lattú þér vera annt um, ad sa bródur þiñ, sem þú sier villuræfandi, leiddañ aptur a réttañ veg, amiñt hañ og advarad vid hæska þeim, sem þú sier hañ stofna sér í med framhaldi a lastaña vegi. Viljir þú samt vænta þér, med advörun og aminñingum þínum, ad sa hañ til betrunar leiddañ, mattú gæta þess, ad haga þeim vel og forsjalega, ætíd med varhygd og gætni. Sjalfselskan er þess ollandi, ad meñ almeñt afsaka eda dylja lýti sín og avyrdíngar, bædi fyrir sjálfum sér og ödrum; vilja því optast sýnast betri, eñ þeir eru í raun réttri, hvar af leidir, ad möñum er eckert vidqvæmara, enn ad adrir hræri vid brestum þeirra, einkanlega þeim, sem þeir eru af náttúru hneigdir til, og eru þeim því med lángri æfíngu kjærir vordnir og ad vana. Ef þú þess vegna stundar ad fá bresti þíns hrasada bródurs lagada og hañ betradañ med áminñíngum, máttú varast ad brúka vid hañ beiskyrdtar ádeilur, heldur byrja þær ætíd med hógværd og blídlyndi; ber þér því fyrst ad leitast vid ad ávinna þér ást hans og traust, um hvad þú mátt

gjora þér von, þegar þú fær hann þar um samfærdann, ad eckert, nema einlæg ást til hans og laungun eptir hans velferd, leidi þig til ad hræra vid hans lýtum, og fá hann vaninn af þeim. Med jafnblídri adferd áttu ad setja honum fyrir sjónir, í hvỏllíka ógæfu hann steypi sjálfum sér med framhaldi á lastanna vegi, og gjora honum audsjena ógæfu þá, sem fyrri eda seinna þar af leida muni, en undir eins ber þér alúd ad sýna, ad honum verdi eins skiljanlegt, hvørsu hollt og naudsynlegt honum verda megi, ad láta af illu en læra gott ad gjora. Fáir þú med þesshattar fortølum, bródur þinn leiddann til vidurkénníngar bresta sinna og ávyrdínga, þarf honum jafnframt fyrir sjónir ad setja: ad jafnvel þó ørdugt finnist, ad afneita sjálfum sér og afleggja gamlann synda vana, sé þó sá sigurinn veglegastur, fái nockur sigrad sjálfann sig, en þó honum finnast kunni dygdanna vegur, sem hann einsetur sér framvegis ad feta, gagnstædur gédslagi hans, og þessvegna yfrid ørdugur, sé hann þad þó ecki nema í fyrstu, því smámsaman verdi hann vid vana og æfíngu andfarnari. Þess vegna, til þess ad gjora hann fúsari ad fylgja heilrædum

þin-

þínum, er æ hentugt, að leiða hönum, ecki einúngis sjálfra dygdaña ágæti fyrir sjónir, heldur og þá dýrðlegu umbun, sem dygdum er heitin í þessu og komanda lífi, og sem eru jafn dýrmæt og æskileg, sem ófarir þær, er af löstum leiða, mega ótta-legar verda sérhverjum skynjandi maññi, sem man til eilífdariñar. Sæll ert þú, kristni madur! heppnist þér þañiñ að fá bródur þiñ, sem frá sañleikanum villtist, aptur á réttañ veg leiddañ; því hvørr, sem syndaranum snýr frá villu hans vegar, hefir frelsad eina önd frá dauda, og mun hylja fjølda synda.

## 36. Hugvekja.

Slöckvid ecki Andann. (1 Thess. 5.)

Eckert gott tré ber skémmdann ávøxt, og eckert skémmt tré gódann ávøxt. Meñ samanlesa ecki fíkjur af þyrnum, ecki heldur vínber af þistlum. Gódur madur framber gott af gódum sjód síns hjarta, og íllur madur íllt af vondum sjód síns hjarta, sagdi Jesús fordum til Gydínga fólks; og er þad mála samast; því girndir og athafnir vorar hafa sín

fyrstu upptök frá hjartalaginu. Sá, hvörs hjarta er gott, gjörir góð verk, en hinn, er vondaan mann hefir að geyma, fremur fúslega íllt, eptir því, sem hans innvortis hjartalag er betra eða verra til; að minnsta kosti gjörir hann fátt það, sem í raun réttri getur 'góðverk heitið; þess vegna er allt undir því komið, að hjartalagið sé gott. Sá, sem vill skirrast við íllt, án þess að bæta hjartalag sitt, hann má heita að byggi hús sitt á sandi. Enginn er af náttúrunni allskosta góður, og enginn að öllu leiti vondur. Það er því skylda sérhvörs, sem góður vill vera, að efla og styrkja hjá sér þær góðar tilhnegíngar, sem hann af náttúrufari er hneigdur til, en dempa hinar vondu, og er jafnmikil þörf á hvörju um sig, því heldur, sem jáfnvel góðar tilhnegíngar kunna við forsómun þessarar skyldu, auðveldlega að niðurþaggast. Svo sýnir reynslan, að einatt fari hjá þeim, sem ecki lætur sér annt um, að viðhalda og efla hjá sér sanna mannelsku; úr hjarta hans upprætist hún smámsaman, því áminnir Póstulinn Páll ecki ófyrisynju þá thessaloniíku menn: að útslöckva ecki Andann; það er að segja: að útrýdja ecki úr hjarta

sínu

sínû því kristilega hugarfari. vegna hvørs vér vogum ad kalla Gud vorn fødur, og sem er pantur uppá arfleifd vora á himni. Yfrid mikid rídur oss því á, ad rótfesta og stødugum vidhalda þessum Krists anda í vorum hjørtum, og láta hañ stjórna øllum athøfnum vors lífs. Þá má þad heita, ad Gud búi í oss, og véri honum. En fyrst og fremst liggur oss á, ef vér temja viljum oss þetta gudlega siñislag, rétt ad þeckja sjálfa oss og vorar tilhneigíngar, ætíd styrkja hjá oss betur og betur þær gódu, en nidurþagga þær vondu, og þared almennur mannkjærleiki er ein af þeim dygdum, sem eptir Krists lærdóms bodi prýda á sérhvørs kristins manns hjarta, egum vér ad láta oss annt um, ad nidurkéfja þær tilhneigíngar, sem heñi géti til hindrunar verdid. Misskilin sjálfselska er þess allopt ollandi, ad vér lítum framar eptir voru egin enn annara gagni, og afrækjum þess vegna eins opt skyldu þá, sem oss ber ødrum ad andsýna, jafnvel verdur sjálfselskan tídum undirrót margra lasta, einkum áseilnis, ránglætis, øfundar, mannhaturs, og eñ fleiri ódygda, hvørjar allar eru gagnstædar Krists bodi, sem býdur oss ad elska

adra

ádra eins og sjálfa oss. Því skadlegri, sem þeir lestir eru, sem rángsikilin sjálfselska af sér fædir, því framar ber oss ad láta oss annt um, ad fá henni rétt stjórnad, med því ad rótfesta hjá oss sannann mann-kjærleiks anda, sem vid sérhvört tækifæri láti sig í ljósi. Þess vegna er oss árídandi, ádur eñ óleysileg egingirni, sem audveldlega kann nídur ad kjæfa mannelsku tilhnegíngar í voru hjarta, verdur hjá oss ad vana, ad venja oss æ ad uña ødrum eins og oss sjalfum, og stunda til þeirra gagns, sem vors egin. Aldrei megum vér því leita eginn ævinníngs vors eda frama, ødrum til tjóns eda nidurdreps, né æ nockurn hátt ad verda þeim ollandi sorgar eda hugar-angurs med ordum eda verkum; heldur egum vér, eptir sama kjærleikans bodi, ad bera hjartanlega medaumkun med vorum lídandi brædrum, ad létta, eptir efnum vorum og ástandi, undir þeirra mædu byrdi, en fagna þaræmót velgengni þeirra, eins og vorri egin, þa fullnægjum vér líka Postulans bodi, ad fagna med fagnendum, en græta med grætendum. Þessa kjærleikans tilhnegíngu og kristnúm verdunga hjartalag, egum vér jafnframt ad

læta

lanta í ljósi, í blídri og astúdlegri umgengni med brædrum vorum. Hvørja vissari røksemd faaum vér géfid fyrir því, ad vér séum sannkristnir, enn med því ad votta hlýdni vora vid kjærleikans dýrmæta bodord, sem Jesús gaf sínum lærisveinum: elskid hvørr annann! þar af munu allir þeckja, ad þér erud mínir lærisveinar, ad þér hafid kjærleikann ydar a milli.

## 37. Hugvekja.

Augad má ecki segja hendinni: eg þarf þín ecki vid, né høfudid fótunum: eg þarf ydkar ecki vid. (1 Cor. 12.)

Náttúrunnar niduurrødun hefir Skaparinn þannig hagad, ad eckert er sjálfbjarga eda einfært sjálfu sér til vidhalds, svo þad sámsvarad fái aqvørdun sinni, ann þess þad njóti þar til styrks af ødru. Til dæmis ad taka: ef gras og jurtir egu ad dafna a jørdunni, verda þær ad þiggja sitt af loptsins vøkva og sólarinnar hita. Náttúrleg tilhnegíng hvetur sérhvørja lifandi sképnu til ad ala enn fyrir uppheldi afqvæmis síns, uns

þad

Þad er sjalfbjarga ordid til ad leita sér lífs uppheldis. Þañiñ vidheldst náttúran óumbreytt, eptir Skaparans ákvordun í ondverdu, ad allt skuli studla til vidurhalds því gjorvalla. Allt eins og Skaparinn hefir í náttúrunni ollu þanninn nidurradad, eins hefir hann og ætlad til ad sama vera skuli í mannlegri sambúd í heiminum, svo ad enginn má kallast sjálfum sér fullnógur án annára adstodar, heldur þarf hvorr ad styrkja añann, og sérhvorr gjora sitt til almeñings heilla, undir eins og hann eblir sína egiñ. Án þessa fær eckert mannlegt félag stadist eda ordid farsælt. Í þessu tilliti áminnir Krists lærdómur oss, ad vardveita bródurlegann kjærleika innbyrdis vor á milli, ad breyta eins vid adra og vér óskum ad adrir breyti vid oss. Páll, Postuli býdur enn framar: ad vér skulum álíta oss alla, sem einn líkama, og hvorr annann eins og limi eins sama líkama, sem einkis lima siña megi án vera; augad megi því ecki segja: eg þarf þín ecki vid, eda hofudid fótunum: eg þarf yckar ecki vid. Sérhvort stand vidþarf annars, eckert má hins án vera, allir limir

borg-

borgaralegs félags ega því med sameinudum kroptum, ad styrkja til sameiginlegs gagns; en þar hlýtur sérhvør sinna, eptirefnum sínum og ástandi, ad leggja þad fram, sem í hans valdi stendur, til ad ná sama augnamidi. Þeir, sem ráda løndum og ríkjum, ega ad géfa þau løg, sem mida til almeñings heilla; lǫg, sem haldi þeim óhlutvanda í taumi, aptri þeim ríka frá ad undiroka fátæklínginn og ad áreilast hann, fyrirbyggja alla rángsleitni og ofríki. Allteins er þegnanna skylda, med ódsveipni ad sýna yfirbodaranna løgum og bodum, sem mida til almennrar farsældar, skyldunga hlýdni, ekki einúngis varast øll lagabrot, heldur og gjalda med fúsum vilja þad, sem løgin sérhverjum bjóda, og þarhjá gjøra allt, sem í þeirra valdi stendur, samqvæmt laganna tilgángi, til heilla eblíngar síns Fødurlands. Þessarar skyldu sær sérhvørr gætt, í hvørju helzt standi sem hañ er. Til þessa midar einkum, sem øllum ber ad íhuga: kristileg, skynsom og sidsamleg hússtjórn, gudrækilegt barna uppeldi, svo þau med alldrinum verda vegi sér nytsom og ødrum uppbyggileg. Til þess midar dygd og hollusta hjúa, er

stunda ega gagn sinna húsbænda, hvort þeir eru nær eda fjær. Til almeníngs heilla ega þeir eftir megni ad studla med því, ecki einúngis, ad Postulans bodi, ad géfa og útbýta, þared þvílíkt offur þócknast Gudi vel, heldur og hjálpa med forsjálni til þess, ad fatækir fái hentugleika til, hvørr eptir hans ástandi og kroptum, sjálfir ad abla sér atvinnu, svo ad þeir ecki þurfi uppá adra vera komnir, eins og þessir eru skyldugir til, eptir sama Póstula bodi, ad því leiti þeir megna, ad vinna sjálfir fyrir braudi sínu; því húsgángsmenn og letíngjar ega ecki mat ad fá. Þanninn sjáum vér nú, ad hvørr og einn, af hvørju standi sem hann er, fær studlad til almeníngs hagsælda. Hvad einn ecki orkar, megna fleiri med sameinudum kroptum, ef allir eru samhuga í ad styrkja hvørr annann, allteins og sérhvørr limur á sama líkama (sem einkis þeirra mál án vera), studlar til alls líkamans vidhalds og þarfar. Enginn má því gleyma héradlútandi Postulans Páls áminníngu: ad sérhvørr gæti ecki einúngis ad sínu gagni, heldur og ad annara. Med þessari vidleitni breytum vér samqvæmt vorri kristinndóms skyldu.

38. Hug-

# 38. Hugvekja.

## A Páskum.

Kristur, sem dó vegna vorra synda, hann er upp aptur risinn á þridja degi, epter Ritníngunum. (1 Cor. 15)

Afliðnum Föstu-tíma høfdum vér þad lærdómsríka efni fyrir hond-um, ad hugleida vors Endurlausnara Jesú pínu og dauda, en nú býdst oss nýtt og gledilegt, þar sem oss nú bodast: ad sá sami Jesús, sem med bitrustu qvølum lét sitt líf á krossinum, Föstudagiñ nærst-ann fyrir Páskahátídina, og var þar ept-ir greftradur, sé á Páskadaginn, hvorn vér høldum í dag, endurlifnadur og úr grøfinni upprisinn. Engin fregn gat oß géfist gledilegri né huggunarríkari enn þessi: ad vor Endurlausnari, sem fyrir oss dó, sé upprisinn frá daudum; því þessi bodskapur: ad Jesús, sem dó á kross-inum, sé endurlífgadur og aptur upp-risinn, leidir oss til þeirrar fullvissu:

1.) Ad vér, syndugir meñ, séum for-líkadir vid Gud, og af honum teknir til nádar; vér vitum ad gjørvallt mannkyn

hafdi afvega gengid, og því fallid í ónád vid Gud, og undirvorpid því straffi, sem réttlæti hans krafdi ad gánga skyldi yfir afbrotamenn hans bodorda, en miskunarríkur Gud, sem af hjartgróinni ást til hans skynsomu, en breisku sképna, aumkadist yfir þess fallna mannkyns eymd, fann því og gaf vesælum syndurum til frelsis, það dýrmætasta hjálpar-medal í sínum elskulega Syni, sem sjálfur vitnar: ad Gud hafi svo mjog elskad heiminn, ad hann hafi Son sinn útgéfid fyrir hann, til þess, ad allir þeir, sem á hann trúa, ecki skyldu fyrirfarast, heldur eignast eilíft líf. Jesús píndist því og do, eins og Ritníngin vitnar, eptir Guds frá eilífd ákvardada rádi, til frelsis seknum syndurum; þad straff, sem þeir hofdu verdskuldad, leid hann svo sem syndaranna borgunarmadur, sjálfur saklaus, og á sálu og líkama, í vorn stad, bitrustu qvalir og krossins dauda; en til þess, ad syndugur heimur odlast mætti efalausa fullvissu um, ad þad synda-offur, sem Jesús hanníg frambar fyrir þá sekn, væri af Gudi, sem fullnustu krafdi af þeim syndugn fyrir afbrot þeirra, gyldt metid, hlaut sjálfur Gud þessa fullvissu ad géfa, og hann

gaf

gaf hann þá óefanleguſtu med því, ad uppvekja Jeſúm frá daudum; þar med auglýſti hann, ad hann ánægdur væri med það offur, ſem Jeſús framborid hafdi fyrir mannanna ſyndir, og ad hans réttlæti væri þar med fullnægt; ad hañ, vegna Jeſú pínu og dauda, ſem hañ leid í ſyndugra manna ſtad, væri vid þá forlíktur, og ad hann fullgylda tekid hefdi þá borgun, ſem hanninn útlagt hafdi þeim til frelſis; því vitnar Páll: Gud forlíkadi heiminn vid ſjálfann ſig fyrir Kriſt. Þannig hefir þá ſjálfur Gud med ſíns Sónar Jeſú uppriſu, géfid oſs, ſem á hañ trúum, óefanleguſtu fullviſſu um qvittun vorra ſynda, fyrir hans ſkuld, ſem dó fyrir þær, og uppreis oſs til réttlætis. Nú vitum vér, ad eckert er fordæmanlegt á þeim, ſem í Jeſú Kriſti eru, þeim, ſem ecki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum. Nú kuñum vér trúaröruggir ad undirtaka med Poſtulanum: hvørr vill áklaga Guds útvalda? Gud er ſá, ſem réttlætir; hvørr er ſá, ſem fordæmir? Kriſtur er ſá, ſem dáinn er; já, enn miklu framar ſá, ſem upp aptur er riſinn, ſitur á hægra veg Gudi og bidur fyrir oſs.

2.) Jannan máta géfur Jesú upprísa oss fullvissu um, ad vor trú á hann sé efalaust grundvollud, því vér vitum nú, ad þared hann er uppristinn og se stur á hœgri hond Gudi, gétur hann haldid oll þ…u heityrdi, sem hann géfid hefir sínum trúnúdu. Vil vor von um þeirra uppfyllíngu, hefdi á engum fostum grundvelli hvílt, ef vér ecki hefdum þá fullvissu, ad hann væri þess megnugur; oll vor von og trú á Krist væri þá, eins og Postulinn Páll vitnar, ónýt, ef hañ væri ecki frá daudum uppristinn, því hvornig gæti hañ þá, eptir sínu lofordi, bedid siñ himneska Fodur fyrir oss? hvornig þá sendt oss sinn heilaga anda? hvornig þá vardveitt sína kristni og verid hjá oss til veraldar enda? en nú, fyrst hann er frá daudum uppristinn, vitum vér ad oll hans fyrirheit eru óefanleg, og ad oss er óhult ad fulltreysta þeim. Hann er nú hjá Gudi og bidur fyrir oss, og gétur gjort þá sáluhólpna, sem fyrir hañ koma til Guds, vér vitum ad hañ lifir eilíflega, og ad maktin og ríkid er hans.

3.) J þridja lagi hofum vér orsok til ad gledjast af Jesú upprisu vegna þess: ad hún géfur oss ecki einúngis óefanlega

full-

fullvissu um sannleika Jesú lærdóms, heldur einúnig um vora egin uppríſu og nýtt líf ad þessu endudu, eins og Jesús hefir oss kénnt. Þad, sem þeir vitrusu heidíngjar eptir óskudu, en leiddu þó ad eins í gétgátu, ad líf værí til eptir þetta, þad hefir Jesú upprisa, til fagnadarsællrar gledi sérhvørri ódaudlegri sálu, gjørt óefanlegt. Jesús hefir oss þetta ecki einúngis med ljósum ordum kuñgjørt, heldur hefir hañ eñ fremur sýnt og sañad med sinni uppríſu, ad þetta, sem mañviti voru sýndist ómøgulegt, ad endurlífga og uppvekja af grøfnum dauda líkhami, var, fyrir hans almættis krapt, møgulegt. Jesú upprísa, eins og lærdómur hans, fullvissar um, ad sú dyña grøf skal á sídan skila aptur þeim daudu, sem í hana vóru lagdir. Hvílík gledisjón opnast oss ecki hér, daudlegum mønnum? Jesús er uppriſinn og lifir; vér egum einnig ad upprísa og endurlífna; hvørsu gledirík má oss ecki vera þessi fagnadarsæla fullvissa! nú burthverfur sérhvørri trúadri sálu allur ótti fyrir dauda, grøf og forrotnun, sem oss daudlega qvelja mátti vid daudans adkomu. Ecki festum vér nú lengur auga á þessu óstødugu og stutta

 lífi;

lífi; ecki á grøfinni, sem vér egum ad leggjast í; ecki á þeim lánga svefni, í hvørjum vor líkami á þar í kyrrdum ad hvíla; nei, nú lítum vér glødu, vonarfullu auga framyfir allt þetta, og festum þánkana á því, sem í vændum er á sídan. Ad lidinni þessari dymu daudans nótt, upprennur ljómandi morgunrodi, sem bodar oss fagnadarsælann gledidag híns komanda nýa lífs, til hvørs vorir fúnu líkamir, sem í jørdunni hvíla, skulu med almættis krapti þess, sem skop þá í øndverdu, endurlífgadir uppríísa, og njóta endalausrar sælu, í eilífum sambúdum med vorum Endurlausnara og øllum hans útvøldu. Jafnvel þó vér, ámedan vér íklæddir erum þessum daudlega líkama, ecki fáum gjort oss skíra þánka um þessa komanda lífs sæla ásigkomulag, þar ed Ritníngin útmálar oss þad einúngis í samlíkíngum, sem teknar eru af því veglegasta og girnilegasta, sem vér þeckjum hér í lífi, efalaust þess vegna, ad eginleg útmálun þess hefdi verid oss ofhá og óskiljanleg, er oss engu ad sídur, eptir Jesú lærdóms opinberun, svo mikid bert og audskilid, ad hinna sælu himnabúa farsæld, mun miklu meiri verda, miklu dýrdlegri

legri, enn vér dauðlegir gétum oss hér á jörðunni ímyndað eða óskað oss. Víst er og það, sem Jesú lærdómur með beinum orðum vitnar, að vér þar verðum fríir frá öllu vondu, en munum vaxa þar í þeckíngu og fullkomnun, og alltaf uppsiglga frá einni sælunnar troppu til annarar æðri, til þess að njóta hvílíkrar sælu, sem Guðs Andi í Ritníngunni sýnist hafa útmálað oss sem skírast og skiljanlegástar með þessum orðum: það hefir ecki auga séð, ecki eyra heyrt, og alldrei hefir það í nockurs manns hug eða hjarta komið, hvílík sú sæla er, sem Guð hefir tilreidt sínum útvöldu.

Þessi er sú sæla, sem Jesús hefir oss heitið; þetta það nýja líf eptir dauðann, sem Jesús, með sinni upprisu, hefir gjört oss fullvissa um, að vér ættum í vændum. Látum oss því, kristnir menn! leggja allt kapp á, á meðan vér lifum hér í heimi, að gjöra oss þessarar dýrmætu og óendanlegu sælu verðuga! þar til vyrdist godur Guð að géfa oss sína náð og aðstoð, í Jesú nafni!

# 39. Hugvekja.

## Á sídasta Vetrar-dag.

Hvørt sér fast heldur, vid Herrann dag sem nátt, og hvlíst hrelldur, hans undir skugga mátt; hañ segir: Gud mitt hæli er, kross, qvøl og þrautir, þó komi ad hondum mér, þó komi ad hondum mér.

Já, undir skjóli þess Hærsta og skugga hins Almáttuga, má sérhvørr af oss vidurkéña, ad hañ setid hafi þessa Vetrar-tíd, sem nú lídur út. Qvídandi máttum vér, sem vonlegt var, byrja Veturinn, þegar vér settum oss fyrir sjónir þau hættu tilfelli mannlegs lífs, sem oss á honum búin vóru; þá hørdu vedráttu, sem venjulega fylgir Vetrar-tímanum í voru kalda landi, og ollir opt meñum og sképnum tjóns og hættu á sjó og landi. Med ángistarsomu auga leit efalaust margur fátæklíngur, vid Vetrarins byrjun til tímans, sem þá fyrir hondum var, þegar hañ hafdi ecki fyrir augum sér þad, er nægja vyrdtist til atvinñu sér og sínum, né klædnad til skjóls í vetrar-kuldanum. En eilíflega vegsamadur sé vor gædskuríki al-

almáttugi Fadir! sem eñ þá þetta aflidna mißiri hefir audsýnt oss sína trúfesiu umhyggju, já, látid oss sañfærast um sína guddóms forsjon, er leiddi oss svo dósamlega gjörvallann Veturiñ út, til nálægs tíma, ad engin ólucka mætti oss, né nockur háski grandadi. Sú orláta hønd, sem útbýtir fædslu allri lifandi sképnu, og sjer fyrir næríngu þeim fuglum, er fljúga um í vetrar-kuldanum, var fyrir oss ecki apturlukt. Forsjon vors Guds og umhyggju megum vér miklu framar prísa, eñ forsjálni vora, ad vér lidum enga naud, né þúngañ atviñu brest þeña aflidna Vetur, og ecki einungis hefir vors Guds náqvæma umhyggja alid oñ fyrir þorfum vorum um þessa Vetrar-tíd, heldur eiñig fyrir ánægju vorri og gledi. Lífsins luckn og unadsemdar høfum vér adnotid í ástúdlegri umgengni vina vorra og vandamaña, sem gleddu oss og hughreystu, þegar eitthvad mótdrægt eda ørdugt ad høndum bar; en þegar eitthvørt þad mótlæti eda mæda hendti oss, sem hvørki sjálfir vér né vinir vorir fengu rádid bot á, þegar þær naudir adbáru, úr hvørjum vér sáum enga frelsis von, og vor úrrædi urdu þau ein, ad flýja med audmjúkri bæn á

u ád-

nádir vors Guds, hvorjum aldrei verdur rádafátt í vandrædunum, né nockurntíma um megn ad hjálpa þeim naudstoddu, þá fyndum vér; já, med sannri hjartans tilfinníngu og þacklæti játum vér þad, þá þreifudum vér á því, hvorsu eyru vors miskunar-ríka fødurs stodu æ opin fyrir vorum qveinandi harma-klögunum, og hans almáttugi armleggur var þá útréttur til hjálpar og frelsis oss, er vér vórum í naudum staddir. Vitui þad hvørr af oss í siñ stad, hvort hañ, þegar hann af trúudu hjarta bad Gud, for nockurn tíma oböen-heyrdur frá honum, eda leitadi hans förgéfins, svo ad hañ hvorki fengi ráuna-léttir né endurnærfíngu í eymd siñi! en segi oss þad nú eiñegiñ samvitska vor og sú endurmiñíng umlidiñar vetrar-tídar, sem upprifjar fyrir oss gædsku Guds og velgjørnínga, er vér á henni medtókum, hvørt vér hofum verdskuldad þvílíka fødur-umhygg ju, sem vér reynt hofum ad Gud hefir fyrir oss borid, eda svo náqvæm afskipti af hogum vorum, oss til lucku og blessunar? hvørr af oss þarf lángrar umþenkíngar til andsvara þessari spurníngu? Allir vér, hvørr med odrum, megum efalaust játa, ad vér á aflidnum Vetrar-tíma, eins og á odr-

ödrum lífs-stundum vorum, höfum til straffs og hegníngar unnid af Gudi en engra velgjörnínga. Fyrir hvörsu margar syndir, drýgdar á afslidnum Vetri, hefdum vér nú ecki ydrun ad gjöra vid Vetrarins enda, ef vér gættum þess? syndir, sem því midur margur hvörr drýgdi af ásetníngi, syndir af vana og tilhneigíngu, sem vér þo þecktum ad stygdu vorn góda födur, er vér, hvörsu sem syndgudum hönum á móti, fundum þó ad hjartanlega elskadi oss, og ól fyrir oss trúfasta önn? og jafnvel þó nád Guds, sem kroptug hefir reynst í vanmætti vorum, hafi vardveitt suma af oss frá vísvitandi syndum, megum vér þo allir, hvörr med ödrum, játa, ad vér þrálega syndgudum af gáleysi og brádlyndi; en, hvörsu mikid gott höfum vér þar hja forsómad af því, sem vér áttum ad gjöra og gátum gjört? þegar vér íhugum, med verdugum eptirþánka, framferdi vort á umlidnum Vetri, og gefum undir eins gaum ad því, sem oss á hönum mætt hefir, má oss ecki einúngis mikla st lánglundar-géd Guds og óþreytanleg þolinmædi vid mannanna vondsku, heldur enn framar hans ómrædileg nád og miskun vid oss syndarana, sem erum

hans

hans nádar óverdugir. O! því framar, sem vér megum nú vera sannfærdir, bædi um vorn óverdugleika, og líka um hans þolinmædi og nád vid oss, því framar ætti nú ríkdómur hans miskunar ad hafa hjá oss þá verkun, sem hann tilætlar; en, eptir engu ødru enn egin lucku vorri leitar hans trúfasti kjærleiki, þar til midar allt hans umburdarlyndi med syndum vorum; þar til midar hans náqvæma umhyggja fyrir vorum høgum; þar til mida allir vors Guds óteljandi velgjørníngar, og allt, sem hann lætur oss mæta í þessu lífi; allt á þetta, undir hans stjórnun, ad leida oss til farsældar; en þessarar lucku fáum vér þó alldrei ordid adnjótandi, nema vér séum í sátt vid Gud, því er einka medalid til þess, ad komast í sátt vid hann, og ødlast aptur hans vinfengi, fyrir syndara, sem af sér brutu hans nád, ad ydrast syndanna af einlægu hugarþeli og bæta sitt líferni; sú ydran er uppbyrjan vorrar lucku, sem mildi Guds leidir oss til, med nádarríkri medhøndlun sinni. O! lætum þá ecki þvílíka nád vors Guds, sem einúngis midar til vorra egin heilla, verda forgéfins. Nú, þegar oss er í

fersku

ferſku minni vid Vetrarins enda, bædi gædſka hans, ſem leiddi oſs Veturinn út, og þær ſyndir, ſem vér á honum drýgt höfum, ſem bædi eru margar og miklar, voguum vér ecki ad renna augunum til þeſs komanda Sumars, án þeſs ad leita fyrirgéfníngar á þeim, med hreinni ydrun. Vér ſnúum því, vid Vetrarins lok, hjarta voru og munni til þín, miſkunſami og gódi Gud! lofadur, eilíflega lofadur og vegſamadur ſért þú, fyrir þad, ad þú hefir lofad oſs lifandi ad enda þennann Vetur! lofadur vertú fyrir alla þá nád, náqvæma umhyggju, miſkun og trúfaſtann kjærleika, ſem þú hefir oſs á honum látid í tje! lofadur vertú fyrir alla oſs á honum veitta óverdſkuldada velgjörninga! en vér ſkömum þeirra ecki minnſt án þeſs, ad ſú endurminníng veki hjá oſs blygdun yfir þeim ſyndum, ſem gjördu oſs þeirra óverduga. Æ vor gódi Fadir! vér höfum eckert, veſælir! ad bæta fyrir oſs med; uppá, þína nád, ſem óendanleg reyniſt ſérhvörjum, er hennar leitar med ydrándi hjarta, og í trauſti vors Endurlauſnara Jeſú, er bætti fyrir vorar ſyndir, erum vér aumir ad öllu leiti komnir.

Í hans nafni voguum vér ad bidja þig, ad fyrirgéfa oss alit þad, sem vér a afliduum Vetrar-tíma höfum brotid a móti þér, og vort trúnadartraust til þín, hvørn vér reynt höfum svo gœdskurikan Fødur, er þess fullørugt, ad þú munir uppgéfa oss alla vora miklu skuld, þegar þú sjer ad oss af hjarta angrar þad vonda, sem vér drýgt høfum, og einsetjum oss einlæglega ad verda hér eptir betri. En, þú þeckir vorn óstødugleika best í þvi góda; þér er kunnugastur vanmáttur vor til ad framqvœma þad. Þinn kraptur, almattugi Gud! gjøri oss æ stødugu, og efli oss veika í øllu godu! Med fulltrausti um þína nádugu bœnheyrslu þessa, endum vér þennan blessada Vetur, og væntum oss, af nád þinni, farsælla í hønd farandi Sumar-tíma, en þegar vorrar hérvistar Vetrar-tímar loksins enda taka a jørdunni, styrki þa hjarta vort ørugg trú og von um þad, ad vér egum þa fyrir høndum umbreytíngalausum gledi-stundum ad fagna í þinni dýrd, sem aldrei mun enda táka.

# 40. Hugvekja.

## Á fyrsta Sumardag.

Befala þú Drottni þína vegu, og vona þú á hann, hann mun því vel til vegar koma. (Psálm. 37.)

Eptirlaungunina, að vita fyrirfram hvað á okomnu tímunum mæta muni, finnur sérhvørr af oss í sálu sinni, og er þessi eptirlángan ecki ósjáldan blönduð ótta og qvíða fyrir þeim mæðu-tilfeilum mannlegs lífs, sem vér sjáum fyrir møguleg eða og líkleg að tilbera kunni. Við tímanna umbreytingar, við ára og miðsára-skipti, verðum vér hvað helzt varir hjá oss þessarar eptirlaungunar, þegar vér rennum augunum fram á veginn til þeirra tíma, sem fyrir høndum eru og vér egum úti að gánga. Það er því náttúrlegt, nú við tímanna breytingar og uppbyrjun nýrrar Sumar-tíðar með þessum degi, þo oss hvarfli í huga sú spurning: hvað mun sérhvørjum af oss á þessu Sumri að høndum bera? að sönnu høfum vér á þessum degi óskað sjálfum oss og hvørr øðrum luckulegs Sumars, en þegar vér rennum þaunkunum t [...]

hinna margvíslegu tilfella þess mann-
lega lífs, má ecki undra, þo qvídi fyrir
ogédfeldum, ásamt verda kunni vort
hlutfall. Sá, sem gladur og ánægdur
byrjadi Sumarid í morgun, spyr því:
hvørt hann muni þad og, í sama ásig-
komulagi, fá útendad; mun eg heilbrygd-
ur fá Sumarid aflifad? mun eg ánæg-
ju njóta af ástvína minna sambúdunt
þetta Sumar út? munu mín fyrirtæki
heppnast, og mínir næríngar útvegir?
mun eg eins frí verda Sumarid út, og
nú í dag, fyrir mædu og eymdum? —
Sorgmædds spyr sá, sem vid lífsins mót-
lætingar á ad strída: munu mínar eymd-
ar-stundir enn þá ecki enda taka á þessu
Sumri? mun sama rauna-byrdi, sem
nú tekur til ad verda óbærileg á mínum
herdum, ecki af þeim létta Sumarid út?
uppá enga af þessum efasómu og ótta-
blöndudu spurníngum, fær nockurr einn
af oss med vissu svarad; en — svo óró-
legir og qvídafullir, sem vér verda meg-
um, vid umþenkíngu ókominna tilfella
á þessu Sumri, svo megum vér þó þan-
inn andsvara sjálfum oss: ad vér vera
megum óqvídnir fyrir hvørju helzt til-
felli, sem oss gétur ad höndum borid,

því: allir vorir dagar standa í hendi Guds; allir vorir ókomnu tímar og sérhvørt tilfelli, sem oss at þeim mæta mun, er innilukt undir forsjónar hönd þess Almáttuga; hann hefir svo náqvæm afskipti af högum vorum, ad eckert vort høfudhár kann ad skérdast án hans vilja, og svo er hann máttugur, ad móti hans makt fær enginn stadid. Þessi almáttugi Gud, sem vakir yfir velferd vorri, hann er, fyrir Krist, vor forlíkadi Fadir, og elskar oss med ónumrædilegum kiærleika, sem sín börn. Hann hefir med vísdómi og gædsku áqvardad þad, sem á þessu Sumri oss ad höndum ber; en hvad helzt, sem þad verda kann, hlýtur þad undir hans stjórnun ad verda til eblingar luckuvorri og velferd. Þó er þess ecki ad vænta, ad þad, sem Guds alvísa ráð áqvardad hefir ad vid oss skuli framkoma á þessu Sumri, svari ætíd til vorra óska, því vér, fávísar mannsképnur! vitum sjaldan hvad oss er fyrir bestu; vér lítum optast-nær einúngis til hins nálæga, og óskum oss þess, sem auka megi vora nærverandi ánægju og gledi, án þess ad grunda hitt, hvørsu hollt oss muni þad verda fyrir

 seini

seinni tímana; en — sá Alvísi, sem lengra sjer fram í veginn enn vér, sem betur sjer hvad oss hentar enn vér, hann útbýtir oss því einu, sem hann sjer oss heilladrjúgast bædi í bráð og í lengd.— Oss skal því ecke undra, þó luckuóskir þær, sem vér í dag gjörum oss, rætist ecki ad ollu leiti á þessu Sumri: þo sá harmandi fái ecki ætíd raunaléttir þanninn og á þeim tíma, sem hann æskir sér; þó ad fyritæki vor heppnist ecki oll eptir vorri tilstofnun; þó ad luckunnar umbreytingar mæti oss þær, sem kunni ad vera oss ógédfelldar; nægi oss þitt, ad vér erum þess fulltrúa, ad hvad helzt sem vor gódi og almáttugi Fadir hefir áqvardad vid oss framkoma skuli í Sumar, hlýtur ad þéna oss til góds, ef vér tokum því, sem hans rádstofun. Mæti oss þá eitthvort mótlæti á Sumri þessu, sjer hann oss þad hollara enn medlætid, hann sjer oss þá sjúkdóminn hellsusamlegri enn heilbrygdi; ørbyrgd heldur enn nægtir; sorg heldur enn gledi; líf heldur enn dauda, láti hann þetta, heldur enn annad, verda vort hlutfall, og þessi trú til vors Guds, um nidurrødun og áqvordun ókominna tilfella vorra,

fær gjört ofs óqvídna og örugga fyrir hvörju helzt, sem ofs mæta kann á þessu nú í dag byrjada Sumri. Med hví- líka trú, sem grundvallar sanna mann- lega luckn, ánægju og rósemi í þessu lífi, megum vér, á þessum fyrsta Sumar- degi, óska hvörr ödrum til lucku, og vænta ofs nægra heilla af henni Sum- arid út, og allar vorar ókomnu æfistund- ir. Mæti mér — segi hví sérhvörr af ofs, styrktur vid þessa trú — á þessu komanda Sumri, hvad helzt mæta vill, allt mun þad adbera eptir rádi míns Guds; látum vera, ad þad sé hulid fyr- ir mínum augum; látum vera, ad þad strída kunni á móti áformi mínu og ósk- um; engrar skal þad abla mér áhyggju! eg veit, ad allt þad, er vid mig fram- kémur, skédur ad rádi þess alvísa og góda Guds, sem er minn elskulegur Fadir, og sjá mun betur fyrir rádi mínu enn eg sjálfur. Hans rádstofun og vegleidslu vil eg, rétt eins og barnid, á hendur fela mig og allt mitt rád; eg vil fylg- ja honum, hvört sem hann kallar mig; eg vil trúa honum til þess, sem hann hefir lofad mér; eg vil lída þad, sem hann leggur á mig, því eg er þess full-

trúa, ad hver helzt luckukjør, sem mér mœta, þó mér finnast megi þau ógédfelld, munu, undir hans stjórnun, verda medal til minnar velferdar. Á mótlætíngunum, þó eg ætti ad lída þær þúngbærar, hefir hann heitid mér vegsamlegum enda; mína gjørvalla jardneska luckú þetta Sumar út, veit eg minn alvísa Fødur hafa þanninn fyrirhugad, sem mín eilífa velferd útkrefur; rólegur vil eg því og óqvídinn vænta þess, sem hann ályktad hefir ad vid mig skuli framkoma, og í trú til hans forsjónar halda áfram á mínum lífs vegi. En— ef ad vér viljum nú vænta oss þess, ad þvílíkt traust til Guds gjøri líf vort luckulegt, í hvorjum helzt tilfellum, sem á því mættu adbera, verdum vér ad ástunda af fremsta megni, ad lifa eptir hans bodum: Til þess ad innrœta hjá oss þad áform, einsetjum vér oss nú á fyrsta Sumardaginn, eptirfylgjandi lífsreglur, sem vér trúlega viljum vardveita Sumarid út:

1.) Eg vil med hreinu hjarta og rædvendu framferdi framgánga þetta Sumar, eins og fyrir augum alsjáanda

anda Guds, leynt og ljóst; med ordum, gjørdum og hugrenníngum varast nockurntíma ad styggja hann, en af fremsta megni taka mér fram í því góda. Engum vil eg gjøra skada, heldur stydla til svo mikils góds, luckn og gledi ødrum, sem eg er megnugur um; þá mun samvitska mín hughreysta mig og gjøra mig rósamann, þó eg reyna ætti eitthvad mótdrægt, med því, ad bera mér vitni, ad eg ecki er valdur af egin mótlæti mínu.

2.) Øll leyfileg medøl vil eg á Sumri þessu brúka, til ad efla med lucku mína og velgengni. Med forsjálni, ydjusemi og trúskap í minni stétt, fæ eg marga hættu umflúid, og mikid gjørt til eflíngar lucku minni og ánægju. Þegar eg gjørt hefi allt hvad mér er møgulegt, kann eg rólegur ad afhenda Gudi á vald útfall athafna minna, sem sjá mun fyrir því mér til besta.

3.) Samt sem ádur skal aldrei nágandi búksorg né ágirndar ergja ná rætur

ad festa í hjarta mínu. Aldrei skal eg því á þessu Sumri, né endrarnær, leitast við ad bæta mín luckukjør med óleyfilegum hætti eda útvegum; optastnær verdur þvílík adferd og ómak til ólucku; og þo mér heppnast kynni ad fá þad, sem eg sýkist eptir, veit eg mig samt ad engu luckusælli við þad. Máské sú lucka, er eg ákafast sæki eptir, olli mér á síðan hvad mestrar sorgar, og verdi tilefni til minnar egin forðjørfunar; eg vil því biðja Gud, ad úthluta mér því einu, er hann sjálfur sjer mér hentast; eg vil hvørki biðja um fátækt né ríkdóm, heldur um ánægt hjarta, med hvad helzt, sem hann géfur mér.

Þegar vér festum oss nú þegar í hjarta þessar lífsreglur, og fylgjum þeim trúlega, høfum vér þar um grundada von, ad þetta Sumar muni oss farsælt og blessad verda. Þér, vor eillífi, miskunsami Fadir! fulltreystum vér til þeß, ad leida oss luckusæla; þinni guddómlegu forsjón og Fødur-kjærleika, felum vér á vald líf vort og sálu, og øll vor

efni á Sumri þessu; vardveittu oss frá allri ólucku; vernda þú oss frá øllum háskasemdum á sió og landi; blessa þú øll vor fyritæki; géf þú oss ánægt hjarta med alla þína rádstøfun, og láttu allt þad góda, sem þú á Sumri þessu útbýtir oss, hvetja oss til ad elska þig æ meir og meir, og ástunda, sem vora ædstu luccu, af øllum kreptum ad þocknast þér. Þegar þú, vor Gud! vardveitir þessa þánka í sálu vorri, lifum vér gladir í voninni um þad; ad hvørjar helzt luckunnar umbilltíngar, sem oss mæta, munir þú leida oss í gégnum þær og øll tímaskipti, eptir þínu gædskuríka rádi, og medtaka oss loksins á hæsilegri tíd þángad, sem engin tímanna umbreyting verdur framar.

## Bæn í útgaungu Vetrar.

Með gladværum anda og lofsýngjandi túngu prísum vér þig, vor Fadir og Herra himins og jardar! vor hjálp stendur í þínum höndum; þín miskun og trúfesti er stadfest yfir oss, þínum skynjandi sképnum frá ondverdu heims, frá kyni til kyns, í stríðu sem blíðu. Vetrarins horkur og hardvidri gjörir þú ad þínum þénurum; hagl og eldíngar ad þínum sendibodum, er kénna ega oss varhygd og viturlega tímans brúkun. Þú mentar oss þannig, gódi Gud! til ædri fullkomnunar sídar meir; þess vegna prísar vor sála þig, og þacklát vidurkénir: allt er af þér med vísdómi nidurskipad, allt þitt ráð, öll þín stjórnan og vegir eilíf spekt og gædska. Þú ert verndari hins volada, sem rádvandur treystir þér; vort örugga athvarf hefir þú verid á tíma neydar og mannrauna þenna Vetur, eins og allar undanfarnar æfistundir, því skulum vér af hjarta á þig vona, og glédja oss vid þá vissu: ad þú svo fúslega hjálpar. Þú gefur Sumar eptir Vetur, skin eptir skúr; þú tiptar ad sönnu,

sonnu, en ofurgéfur. þó ecki daudanum. Lofadur sé Gud! sem leidt hefir oss líss og heila fram ad þessa Vetrar enda, forsorgad oss og frelsad frá mørgum þeckt um, en þó víst otal fleiri óþecktum háskasemdum. Fagna skulum vér því og gladir segja: lofad sé nafnid Drottins ad eilífu, Amen!

## Bæn í inngaungu Sumars.

Vegsamad sé þitt dyrdarfulla nafn ad eilífu, alvoldugi tímanna Stjórnari! þitt ord, Drottinn! er sannleikurinn, og þín fyrirheit bregdast alldrei; þú bydur, so skedur þad; þú skipar, og þad stendur svo; þín stjórnan er dásamleg, og þín nidurradan í náttúrunni rasfost ecki um alldur og æfi. Þú hefir skapad Sumar og Vetur, ljós og myrkur, frost og hita, bjødt og stirdt, allt hefir þú þad tilsett til þarsa oss, þínum skepnum; sá visdóms skipan stendur enn þá stødug: Veturinn er aflidinn, en Sumarid tekur vid. Lof sé þér fyrir lidnar lífsstundir! já! eilífar þackir séu þér fyrir hlífd og og vidhald, bjørg og blessun og allt gott oss veitt og géfid til lífs og sálar á aflidnum Vetri! Þoß framar, sem vér høfum verid komnir uppá þína nádugu varatekt, því áþreifanlegri hefir þú audsynt oss hana. Þú hefir hlíft oss fyrir verdskulldudu synda-straffi; fyrir slísum og lífs óni-

eng-

engin almenn neyd hefir nád ad granda oss, eda voru fjæra Fodurlandi; allar Vetrarins óbilʒur, allar þinar fødurlegu bendíngar til vor, hafa stýladar verid med hógvæmustu vægd og varkunnsemi; já! øll þín vidhøndlan, rád og regir yfir oss, hafa verid einskjær miskun og trúfesti. Vér høfum syndgad, vér høfum verdskuldad reidi, en þú hefir audsýnt oss nád; æ! lát hana framvegis haldast yfir oss, í Jesú nafni! Gef oss med nýu Sumri nýa blessun! farsæl oss þínar gáfur, þitt lán og allar skepnur! farsæl vora útvegi, vort ervidi og atvinnu og allt þad, er vér tokum oss fyrir hendur til sjós og lands, í þínum ótta. Bjód lopti, jord og sjó, ad færa oss þína blessun, en gef oss, med þacklæti og sannarlegri audmýkt, ad taka vid því ølln, hvort þad verdur mikid eda lítid, sem þín speki álítur þénanlegt ad úthluta oss, til hagsælda og nota, af jardneskum gædum þetta Sumar. Ebl hjá oss stødugt trúnadar=traust til þinnar forsorgunar, og vardveit oss frá óþarfa vøli og heidínglegri búksorg. Þú, vor himneski Fadir! veitst hvørs vér vid þurfum, uppfyll alla vora naudþurft, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi. Í hans nafni byrjum vér gladir Sumarid; gef ad þad verdi oss blessunarrík og notasæl undirbúníngs= og fullkomnunar=tíd, til ríkuglegrar uppskéru á sídan í eilífdinni,

Amen!